# Þad Andlega
# Bæna Reykelsi,

þess góda Guds Kénnimanns

Síra Þórdar Bárdarsonar,

fordum í Biskupstúngum;

og þad sama í andlegt

# Sálma Salve

sett og snúid

af

Benedict Magnússyni Bech,

fyrrum Valdsmanni í Hegraness Sýslu.

---

Videyar Klaustri, 1836.

Prentad á Forlag Sekret. O. M. Stephensens,

af Bókþryckjara Helga Helgasyni.

Jac. 5. v. 13,

Lídi nockur á medal ydar, fá bidji;
Er nockur í gódu gédi, fá fýngi
Sálma.



# Inngángurinn.

## Ein bæn ad madur kunni réttilega ad bidja.

O þú miskunsami og nádugi Gud! eg aum, syndug, og allsþurfandi manneskja, kém nú fram fyrir þitt nádar auglit, gyrnandist hjartanlega, ad þú, gódgjarnasti og ørlátasti gjafari allra gódra hluta, viljir eptir þínu nádar fyrirheiti, í nafni þíns elskulegasta Sonar Jesú Kristi, míns Lausnara, mig bænheyra, og mínu harmþrúngnu hjarta áfjá veita. En med því, eg finn og formerki minn stóran veik-

leika í svoddan heilagri nauð=syn og andlegri ydju, bæninni, svo eg veit ecki, nema mín bæn kunni ad verda þér meir til styggdar enn þócknunar, og mér meir til skada enn nytsemdar: því bid eg þig, minn Drottinn! um nád þins heilaga Anda, svo eg kunni réttilega ad bidja í anda og sannleika. Lát þinn heilaga Anda stjórna mínu hjarta, og munni, hætti og hegdun eptir þínum vilja. Gjör mína bæn sem ilmandi reykelsi fyrir þér, og sem eitt fagurt hljódfæri fyrir þínum eyrum. Lát mig ei vera annarlegann eld Nadabs og Abihu, til offurs minnar bæn=ar, heldur upptendri þad himn=eskur eldur þins heilaga Anda, svo mín bæn fyrir þig fram=sett, mætti verda já og Amen! í Jesú nafni Amen!

Lagið: Upp, upp, min sál! og allt mitt geð.

O Guð mildiríkasti minn! mænandi skepna í himininn, bersyndug allspurkandi og aum, undir þinn flý eg náðar-straum.

2. Óskandi af hjartans auðmýkt mér, ó Drottinn! bænheyrslu hjá þér, og ásjár hjarta aumu mín, eptir náðar loforði þín.

3. Þú góðgjarnasti Gjafarinn, Guð örlátasti Faðir minn, svoddan veit mér í Sonar þíns, sætasta nafni, Jesú míns!

4. En þar eg finn og formerki, hvorsu stór er minn veikleiki, í þeirri andans yðju og art, ebla mitt skyldi bæna skart.

5. Svo eg veit ekki utan sé, að eg framar í bæninne, leiti að stygð enn þóknan þín, þéni meir skaða, enn nytsemd mín.

6. Því bið eg, Drottinn þiði! þig, þíns Anda náðin leiði mig, í anda og sannleik, eg svo rétt, ákallið sái til þín sett.

7. Láttu hann, Drottinn! lýsa mér, lífsins blessandi athafner, hegðun stjórna og hætti mín, hjarta og munni að vilja þín.

8. Eins og reykelsið ilman ber, eins verði bæn mín fyrir þér, og sem hljóðfærin æskilig, eyrum þín veri hún þægilig.

9. Nadabs og Abihu ei lát mig, með annarligum stiggja þig, eldi, til bænaroffurs míns, andans géf heldur verdi þíns.

10. Eldur hans tendri offrid þad, auðmjúk svo bæn mín finni stad, og eilíft verdi Amen: já, í Jesú nafni þér sjálfum hjá. Amen!

# Fyrri Parturinn.

## Morgun Andvarpan.

J nafni Drottins Jesú Kristi þess blessada og krossfesta, rís eg syndug manneskja úr sæng minni; sá sem mig hefur med sínu rósrauda blódi endurleyst, hann stjórni mér og stýri, og styrki mig í øllu gódu, þennann dag og alla adra, og gefi mér um sídir einn gledilegann upprisu-dag úr minni grøf, Amen.

Lagid: Lofid Gud! lofid hann hverr, sem kann.

Augun mín, uppvekur morgun skjær, í nafni þín, nádugi Jesú kjær! rís eg sképna syndum særd, af sænginni minni, Kristur sem oss keypti værd, med kross pínu sinni, stjórni hann hér, í stundlegum sessi, til alls góds mér, ønd í trú hressi, athafner, ásettar blessi,

enn í dag sem alla stund, og gefi eg medur gledi um síd, úr grøfinni upprísi, og gefi eg medur gledi um síd, úr grøfinni upprísi. Amen.

## Þá madur klædist.

O Jesú Kriste! þú saklausa Guds lamb, sem fyrir mig varst nakinn gjørdur; íklæd þú mig þíns réttlætis og sakleysis føgrum skrúda, svo eg mætti í þeim sama birtast fyrir þínu auglíti á sídasta degi, Amen.

Lagid: Adams barn! synd þín svo var stór.

Sæti Jesú safnadarins, saklausa lambid fødursins, hirdir trúr hjardarinnar, nádugur heimsins naudir barst, nakinn fyrir oss gjørdur varst, af grunnleysi gjædsku þinnar. Íklæd mig reifum réttlætis, og rósføgrum skrúda sakleysis, svo eg med svoddann hætti, byrtast fyrir blessudum þér, blessadur þegar lífid þver, fullsæll í farsæld mætti.

## Þá madur þvær sér.

O Herra Jesú! af hvørs sídu

blód og vatn útflódi á krossinum, hvo þú øll saurindi af sálu minni svo hún hrein og hvítfágud mætti til eilífrar dyrdar innleidast, Amen.

Lagid: I dag eitt blessad barnid er.

O Herra Jesú! elskan gód, af hvørs blessadri sídu, flódi út vatn og fordum blód, fordæmdum heim til blídu, saurindin þvodu af sálu mín, svo ad hún hrein í dreira þín, hvítfágud heita megi, innleidd í dýrd til æru þér, einninn velferdar sjálfum mér, ad lidnum lífsins degi.

---

## Morgun Bænin.

Eilífi miskunsami Gud og nádugi Fadir! I þínu heilaga nafni rís eg nú upp syndug manneskja af minni sæng, þér nú framberandi fagurt þakklætis offur fyrir fødurlega hlífd og hjástod á nóttu þessari, mér veitta. O hjartans Herra! þín elska er ómrædileg, þitt almætti óútskíranlegt, þinn

vísdómur ógrípanlegur. Þú ert lystilegasta ljós minna augna, inndælasta gledi minna eyrna, skjærasti speigill míns skilnings. O hjartans Herra! hvad er eg, einn aumur syndari, allrar nádar óverdugur? þó hefur þín hjálparhønd hlíft mér, þitt auga vakad yfir mér, þitt almætti umgirdt mig, hvar fyrir þitt heilaga nafn sé blessad ad eilífu. O hjartans Fadir! láttu nú ljós þinnar nádar svo afmá mirkur minna synda, svo sem dagur burttekur mirkur næturinnar. O himneski Fadir! kom þú til mín á morgni þessum, klæd mig kyrtli þíns réttlætis, sed mig med sætleika þinnar nádar, stid mig med styrkleika þíns almættis, vernda mig undir væng þinnar hlífdar. O nádugi Gud! bevara mig á þessum degi, frá djøfulsins valdi og vélum, bevara mína sál og líf, bevara mitt hús

og heimili, menn og sképnur, fyr-
ir eldi og vatni, stormi og stríd-
vidri, skruggum og eldíngum,
lopt-øndum og lífs-fari, gøldrum
og gjørníngum, og øllu vondu.
Blessa minn inngáng og útgáng,
gaungu og stødu, sess og sæti,
efni og áform og allar útréttíng-
ar, ad þad allt mætti verda þér
til dýrdar, heiløgum englum til
gledi, náúnganum til nytsemdar,
djøflinum til skammar og skélf-
íngar, en mér til farsældar. O
þú heilaga Þrenníng! blessa mig.
O þú eilífa Eining! vernda mig.
O gódi Jesú! bænheyr mig. Kom
mér til hjálpar, og signi mig þitt
heilaga blód, pína og daudi, upp-
rísa, uppstigníng, og øll forþén-
usta. Fridi mig Fadir nádarinn-
ar. Frelsi mig Sonur gjædsk-
unnar. Upplýsi mig helgur Andi
huggunarinnar, þennann dag og
alla tíma ad eilífu, Amen!

Lagið: Lof sé þér, Guð! fyrir liðinn dag.

Eilífi Guð! þín æra og prís, aldrei skal hjá mér þverra, í nafni þínu eg nú upprís, náðugi tignar Herra, syndug mannsképna af minni sæng, mætt þackar offur færi, þér Fadir kjæri, undir þínum adgjætslu væng, í nótt hlaut eg svefn-væri.

2. O! hjartans Fadir, elskan þín, ómælilig er nærsta, eins vísdómur þinn øllum skín, og almætti þitt þid stærsta, augunum lystilegast ljós, lífgun eyrum trúfasta, og indælasta, ertú míns skilníngs ædsta hrós, ásýnd speigils skjærasta.

3. Himneski Fadir! hvad er eg? hræmuglegur syndari, óverdugur á allann veg, enn þó mig náð þín spari, samt hlífdi mér þín hjálpar hønd, heidrist sú vegsemd ríka, fyrir velgjørd slíka; mína þar med umgirdtir ønd, auga þitt vakti líka.

4. O! lífsins Fadir, lát nú þá, ljós geisla nádar þinnar, synda mirkur mitt svo afmá, sem dag-skyn næturinnar:: kjærasti Herra kom til mín, klæd mig þínu réttlæti, sem allt umbæti, sed mig nádar sætleika þín, sýn mér þad eptirlæti.

5. Styd mig, Drottinn! og vernda vel, væng undir hlífdar þinnar, lát hverki djøfuls vald

né vél, verda tjón gjæfu minnar, mitt líf, sál, sképnur, menn og hús, miskun þín í dag spari, og best bevari, því á þig treystir, ó Jesús! allur þinn barna skari.

6. Eldínga-skruggu-vatns-vodum, vindar og hverskyns handa, gøldrum, lífs-fári, gjørníngum, gjørdu nádugt afvenda; inngáng blessadu og útgáng minn, áform og hegdun alla, hér kann tilfalla, útréttíngar í sérhvert sinn, sýslan líssins gjørvalla.

7. Allt svo ad verdi einum þér, til æru og dýrdar þetta, en til farsældar aumum mér, Englunum gledi rétta, náúnganum til nytsemdar, naudstaddra þarfir sesi, sem handbært hefi, til skammar djøfli og skélfíngar, skapari minn þad gési.

8. Herrans upprisa og himnafør, hans blód og qvølin bista, gési mér hvørskyns gjæfu-kjør, og gjørvøll hans forþénusta, Frida, upplýs og frels þinn lýd, Fadir, Sonur og Andi, og forda grandi, í dag og lífsins alla tíd, yfir oss nád þín standi.

---

## Qvøld Bæn.

O þú heilaga Prenníng! Fadir, Sonur og heilagur Andi! þú

guddómlegrar veru Eining! eg þín fátæk skepna, kém nú fram fyrir þitt heilaga auglit á þessu qvöldi, med mitt qvöld-offur. Fyrst þér af hjarta þackandi, alla føđurlega dagsins velgjørnínga, andlega og líkamlega mér veitta. Hver hefur frá mér snúid djøfulsins grimd? hver hefir afvendad eldsins bruna, vatnanna straumi, villudýranna vondsku, íllra manna árásum, og í einu ordi ađ segja, allri ólucku lífs og sálar? einginn utan þú alleina, þú Ísraels verndarinn. Blessad sé þar fyrir þitt dýrdarfulla nafn ad eilífu. Nú, minn Drottinn! nóttin er komin, en dagurinn úti og endadur, vertu þar fyrir mér blessadur og velkominn géstur á þessari nóttu. Kom þú blessadur og bevara mig, voldugur og vernda mig, hjartanlegur og hreſtu mig, signadur og svæfdu

mig. Apturloka þú nú hús-
dyrum míns heimilis með þín-
um ótta, svo aungvir vondir
andar né veraldar-menn inn-
brjótist, mér edur mínu skada ad
gjøra. Um-múra þú eign mína,
svo eingin ólucka fordjarfi það þú
mér lánad og géfið hefur. O
Jesú edla-rót og qvistur Davíðs!
apturlæs þú minni hvílu, með
vernd þinna heiløgu Engla, svo
sem þú fordum Tobíæ og Sarú
gjørdir, svo sá vondi Asmodeus
gat þeim ei grandad. Breið þú
yfir mig þína blessun, undir mig
þína elsku, legg þú að mínu høfdi
þína hjálpar hønd. O þú hei-
lagi Andi! huggari allra naud-
staddra, apturlæstu mínu hjarta
fyrir vondum hugrenníngum og
þíngum huxunum, en opna það
blódi og benjum míns blessada
Jesú. Lát mig, ó þú heilaga
Þrenníng! hvílast í þínum fadmi

á þessari nóttu, svo sem Abisag forðum í Davíðs skauti, að eg á morgun óhindraður ljósann daginn líta megi, hér um bænheyr mig, minn Guð! blessaður að eilífu, Amen.

Lagið: Lof sé þér, Guð! fyrir liðinn dag.

Heilög þrenníng vor farsæld fríð, Faðir, Sonur og Andi, einíng veru blessaðrar blíð, barnsképna þín stynjandi, framkém eg nú að fótum þér, færandi lofgjörð hreina, qvöldoffrið eina, fyrir þessa dags farsælder, fengið hef eg að reyna.

2. Fyrst af hjarta þakkandi þér, þessa dags velgjörnínga, til lífs og sálar lénta mér, létst mig náð aungva þvínga; hver leiddi mig með friði frá, feikna grimd djöfuls leiða, sem mig vill meiða, annar heldur enn einn Guð sá? ákéfð hans gjörði deyða.

3. Hver hefur eldi, vatni og vind, varnað á þessum degi, og villu-dýra vondsku mind, svo við mér hrærðu eigi, dráfum manna og öllu því, sem um minn hag kann spilla, til alls hins illa? eingin utan þín aðstoð ný, Ísraels verndar hella.

4. Dýrdarfullt nafn þitt, Drottinn minn! dýrkad hér fyrir standi! dregst nú á enda dagurinn, dimm nóttin adfarandi, velkominn géstur vertu mér, virdstu mig hressa og styda, vid øllum voda, bevara, signa og svæfa hér, sýn mér þann fridar boda.

5. Heimilis dyrum húsa mín, Herra minn dýrdarlegi! apturlæstu med ótta þín, svo enginn skada meigi, anda né manna íllskan bráð, og óláníd í heimi, þó hér ad sveymi, eignir mínar og allt mitt ráð, um-múrad nád þín geymi.

6. O Jesú Krist! mín einka von, apturlæs hvílu minni, mildasti Guds og Maríu son, med Engla vernduu þinni, sem Tobiæ og Sarú fyr, signud þín ástin heita, réd voldug veita, svo Asmódeus um þær dyr, ei þordi framar leita.

7. Undir mig þína elsku breid, yfir mig blessun ríka, hendur þín mér ad høfdi greid, heilagur Andi líka, apturlæs dyrum innra manns, svo adsókn kunni ei granda, þess ílla anda, en líkn og benjum Lausnarans, láttu þær opnar standa.

8. Heiløg Þrenníng! lát hvílast mig, í hugulum fadmi þínum, sem Abísag fordum elskulig, í ástsemd hjá Davíd sínum, í nótt; svo

meigi á morgun fá, miſkunar þinnar neyta, líds af þér leita, bænheyri þetta ſjálfur ſá, ſem allt kann mér ad veita, Amen.

## Ein dagleg Bæn.

O þú mikdi og miſkunſami Gud! einn í þrenníngu, og þrennur í eining͏u, þú ſem varſt í frá eilífd og varir til eilífdar. Vér þín fátæk børn, gjørum þér hjartans þackir fyrir alla þína fødurlega velgjørnínga, andlega og líkamlega, frá því fyrſta, og til þeſs nú er komid, fyrir ſkøpun og ſkírn, føt og fædi, mál og minni, fyrir þitt heilaga ord og háverdug Sakramenta, fyrir vernd og vardveitſlu, líf og lucku, lán og uppheldi, góda foreldra, kriſtilegt yfirvald, og allt annad gott. Bleſsad ſé þar fyrir þitt heilaga nafn ad eilífu. O Drottinn! vér játum og medkénnum vorar ſynd-

ir og misgjørdir, vora íllſkú og óþacklæti, hvad allt þín miſkun fyrirgéfi í Jeſú nafni. Alíttu ecki vorar ſyndir, heldur þíns Sonar Jeſú Kriſti kroſsins hróp og hjartans bón, og fyrir hans ſkuld, vertu oſs nádugur. Burtſkúfa oſs ecki í þinni reidi, og uppræt oſs ecki í þinni grimd, heldur lít þú framvegis þínum miſkunar augum til vor og miſkuna oſs. Bleſsa og bevara oſs á ſálu og lífi, í vøku og ſvefni, nótt og dag, fyrir djøflínum og allri ólucku. Bleſsa inngáng og útgáng, verk og áform, ſeſs og ſæti, reiſu og rádſløgun. Brádni ſvo og hjadni øll djøfuls grimd og áráſir illra manna, ſem ſnjór og ís fyrir hita ſólarinnar. Drottinn minn Jeſú! þinn dreyra, dauda og pínu, ſet eg í dag millum mín og allra minna óvina, ſýnilegra og óſýnilegra. Drottinn! þín

blessan sé yfir mér hvar eg er og fer. Bevara sálu mína frá eilífum dauða, líkama minn frá háskasemdum, æru mína frá van-æru. Blessa mitt hús og heimili, vini og vandamenn. Lát oss í þér blessuðum, blessaða verða, hér stundlega, en annars heims eilíflega, Amen.

Lagið: Dagur burt tekur dimma nátt.

O Guð mildiríkasti minn, miskunarfulli skaparinn! einn í þrenníngu þinni, þrennur í eining þú varir, það um ókomnar veraldir, og æ varst frá eilífðinni.

2. Vér þín fátæk börn þökkum þér, þínar margtéðar velgjörðer, andans og lífsins líka, í frá því fyrsta og inn til nú, uppruna, fæðíng, skírn og trú, fæt og forsorgun ríka.

3. Fyrir minni, skilníng, mál og dug, mest Sakramentin háverdug, andann og orð þitt sanna, foreldra góða, lucku, líf, lán og uppheldi, vernd og hlíf, og umsjón yfirvaldanna.

4. Allt annað gott vér þökkum þér, þitt nafn sé blessað hór fyrer, nú og um aldir alda,

vorar misgjørdir medkénnum, móti þér Gud í himninum, fyrirgéf synd margfalda.

5. Alít ei sakir syndarans, sjá heldur, Drottinn! Frelsarans, hróp og hjartans bón þída, fyrir hans nafn og neyd á kross, nádugur Herra vertú oss, þess viljum bljúgjir bída.

6. Rek oss ei burt í reidi þín, ræt ei neinn upp í vondsku sín, heldur lát bidlund bæta, miskunsemdanna mildin trú, miskunar auga til vor snú, í sonar þíns nafni sæta.

7. Dag og nótt fyrir djøflinum, Drottinn í vøku og svefninum, forsvar virdstu oss veita, rád, reisur, blessa, sinni og sál, sess, gáng, líf, áform, verk og mál, þeirra sem þíns nafns leita.

8. Eins hjadni djøfuls áráser, sem ís af hita sólar þver, og øll grimd íllra manna, set eg þinn dreira, dauda' og pín, Drottinn í millum þeirra og mín, legg mér og lid Englanna.

9. Hjálp þín og blessan hlífi mér. hvar sem eg, Drottinn! er og fer, vid helvítskri hrigdar snøru, bevørud jafnan sál mín sé, samt líkaminn af skadræde, ver þú mitt nafn vanæru.

10. Blessa mitt hús og heimili, hjúin,

skild-menn og ástvini, láttu oss lífs stundlega, blessadur med blessudum hér, blessada verda, í sjálfum þér, en annars heims eilíflega, Amen.

---

## Dagleg Signíng.

Dýrdarsom blessan Guds Födurs míns Skapara, blessadur fridur Jesú Kristi míns Frelsara, kroptug yfirskyggíng heilags Anda, míns huggara, sé og veri yfir mér og mínum á sálu og lífi, í dag og alla tíma ad eilífu, Amen.

Lagid: Blessadur ad eilífu sé.

Skínandi blessun Skaparans, skjærasti Jesú fridur, hlý yfirskyggíng huggarans, haldist oss kristna vidur, þad sigurtal í sorgar-dal, sérhverjum vorra hlífi, árla og síd, um allann tíd, á gótzum, sál og lífi, Amen.

Sama vers med ödrum hætti.

Lagid: Gud vor Fadir! vertu oss hjá.

Dýrdarsom blessan gjædsku gód, Guds Föd-

urs míns skapara, og Jesú blessad fridar flód, farsælast míns Lausnara, einninn krøptug yfirskygging, auda guddómssins blída, sé mitt lísid og sál um kríng, svo þarf eg ecki' ad qvída, þetta dægur og sérhvørt sinn, svo eg med øllum mínum, hvílist, minn lífsins hertoginn, hlífdar væng undir þínum, géf oss sídan gledi hjá þér, minn gódi Jesú! þá lísid þver. Amen.

---

## Sjø daglegar hjartnæmar andvarpanir útaf sjø ordum Kristí, med minníng skøpunar-verksins.

## Sunnudags Andvarpan, útaf Fyrsta Ordinu.

Fadir! fyrirgéf þeim, því þeir vita ei hvad þeir gjøra.

O minn allra sætasti Jesú! þú heilagi blód-brúdgumi minnar sálar. Skylda mín er, ad

eg á þessum fyrsta degi víkunnar, minnist á þína sáru qvøl og pínu, hvør ætíd á øllum tímum ætti mér ferskust ad vera í mínu minni, þá þú útþaninn á høndum og fótum, héckst á milli himins og jardar, og gjørdist svo sem ein festíng á millum Guds reidi og vor, á millum eilífrar fyrirdæmíngar og vor. Undir þessari nádarfestíng vil eg feiginn vaka og sofa, sitja og gánga, lifa og deya. O minn Jesú! svo sem þú í dag lætur þitt heilaga ord lesast og prédikast fyrir mér, svo fýsir mig ad heyra þíns heilaga kross prédikun og þau ord er þú þar taladir. Fagrann hljóm og sætann smeck gefur minni sálu þitt fyrsta ord, þar þú badst fyrir þínum óvinum, í hverra tølu eg aumur syndari var ad sønnu. O þú himneski Aaron! þín bæn er þad rétta reykelsi, sem stillir

Guds reidi, en mýkir neydina. Pláneturnar á himninum hafa nockra verkan hér nidri á jørdunni, eptir skapadri nattúru. En miklu meiri krapt hafa þín heiløgu ord, sem ad eru svo sem himneskar plánetur á himni nádarinnar, hvør ad verka bædi á himni, jørdu og í helvíti. Á himnum frid-þægandi Gud, á jørdunni gledjandi synduga, í helvíti skélfandi djøflana, og þeirra makt eydandi. O gódi Jesú! útbreid þú þinn blessada blód-fadm yfir mig og mína á þessum degi. Gud var og er þinn Fadir ad eilífu, svo er hann og minn Fadir bædi í hryggd og gledi, lífi og dauda. Þú, minn Jesú! gjørdir á þessum degi, med þínum Fødur og heiløgum Anda, ljósid í fyrstu sköpun, og adgreindir þad frá myrkrunum, vertu mitt ljémandi ljós ad eilífu, og géf mér ad ad-

greina myrkur syndanna, frá ljósi gudhrædslunnar, svo eg í ljósinu gángi. O mildi Jesú! þú uppreist á þessum vikudags morgni, úr þinni grøf, géf mér í dag og alla tíma ad uppríja úr minni synda-grøf. Þú taladir minna vegna til þíns Fødurs af þínum krossi, þú verdur nú í dag til mín talandi hans andsvar fyrir munn þíns þenara. Drottinn minn Jesú! gef mér ad heyra og vardveita þitt ord, þér til lofs og dýrdar, en mér til sáluhjálpar, Amen.

Lagid: Þegar qvalarar krossinn á.

O Jesú blídi! bródir minn, brúdgumi sálarinnar, skyldu mína eg fullvel finn, fyrsta daginn vikunnar, mædu kross þíns ad minnast hér, minnisstædust sem ætti mér, alla tíd æfi minnar.

2. Utþaninn nær þú allur varst, til Endurlausnar manna, af gøddum krossins gégnum skarst, galdstu þá syndaranna, millum

Guds reidi og glæpugs manns, gjø:dist sem festíng himna ranns, svo fengjum frelsun sanna.

3. Undir þessari festíng fús, fridarins vil eg þreya, sofa og vaka, sæll Jesús! sitja, lifa og deya, í dag fyrst lætur ord þín hér, enn nú prédika fyrir mér, fýsir mig framar segja:

4. Kross-rædu þína kís eg mér, Kristur ad þessu sinni, og hvad þar til vor taladir, tek eg þad fyrsta í minni: hvad fagrann hljóm og sætann smeck, sála mín af því ordi féck, í qvala ángist þinni.

5. Brotlegum mér, Guds blídi Son! badstu þá qvittun synda, ó þú himneski Aaron, ást og nád svo eg finda, bæn þín þad rétta reikelsid, reidina stillti, en vann oss frid, mikjandi neyd mannkinda.

6. Plánetur loptsins hafa hér, í heiminum verkan fína, eptir skapadri art þad fer, ord þín krapt meiri sýna, sem heita meiga himneskar, á himni þinnar miskunar, upplísandi ønd mína.

7. A himni; jørd- og helvíti, hér ad auk sí-verkandi, vid Drottinn Gud í dýrdinni, daglega oss fridþægjandi, í heim gledjandi holdlega, hrædandi vítis djøflana, abl þeirra og makt eydandi.

8. O Jesú! blídaun blód-fadminn, breid mér á þessum degi, Gud sem er frægstur Fadir þinn, Fødur minn líka segi, í hvörskyns gledi, hryggd og neyd, hér med í lífi, sótt og deyd, efast eg þar um eigi.

9. Á þessum degi Þrenníng blíd, þú skaptir ljósid bjarta, adgreint frá myrkrum øllum lýd, upplýstu svo mitt hjarta, géf ad eg ljós gudrækninnar, greini frá myrkrum vondskunnar, skuli mín framfør skarta.

10. Á þennann dag og uppreistu, af dauda, Jesú gódi, úr grøf synda mig eins lát nú, upprísa í þínu flódi; af krossins tré þú taladir, til þíns Fødurs, en lausnar mér, alþakinn benja blódi.

11. Það andsvar dýrdar Drottins míns, í dag mér lætur skína, fyrir munntal þénara þíns, það láttu á mér hrína, þér til lofs, æru og þócknunar, þar med sál mín til velferdar, um alla æfi mína.

## Mánudags Andvarpan,

útaf Ødru Ordinu.

---

Þú qvinna, sjá þú, þar er þinn Sonur.

Herra Jesú Kristí, minn Endurlausnari! hvad ástúdlegar eru þínar varir, sætari hverju hunángi? þad reyndi þín sæla og signada módir María, hverri, til forsvars og adstodar, þú sendir og skickadir Jóhannem þinn Lærisvein, þá hún sorgfull horfdi á móti þínum útbreidda blódfadmi. Uppá þig, minn sæti Jesú! mæni eg nú og lít mínum sálar-augum, á þig vona eg, því þú ert mín einasta huggun, heill og blessan. Í þínu nafni blessast mér bædi himin og jørd og allar skepnur. Í skjól og skugga þíns kross flý eg nú, því þú rekur aungvann frá þér, er til þín kémur. Líttu nú þínum miskunar og med-

aumkunar augum til mín, svo sem þú leitst til þinnar blessudu módur. Stid og styrk, hugga og gled mitt hjarta. Auk mína trú, því nær eg hef þig, Drottinn! þá hyrdi eg ecki um himin né jørd. O gódi Jesú! send mér góda forsvars-menn, já, vertu sjálfur mitt besta forsvar og allra minna, þá mér og þeim helst áliggur, einkum þá eg hlít hedann ad fara, vertu mér þá nærstur og nálægastur, géf mér og eirninn þíns eptirdæmis ad gjæta, voludum bjørg ad bæta, med blessan þad eg má. O minn sætasti Herra! þú gjørdir á þessum degi í fyrstu sköpun, einafestíng á millum efri og nedri vatnanna; vertu í dag ein blessud festíng, milli mín og allrar ólucku, falls og fordjørfunar, sé þín blessan einn hlír himin yfir mér og mínum, æ og eilíflega, Amen.

Lagið: Uppreisium krossi Herrans hjá.

Herra Jesú! hjálpari minn, hvað eru varir þínar, ástúdlegar í sérhvert sinn? sætleiki þeirra ei dvínar, það reindi og mátti sorgfull sjá, signuð þín móðir krossi hjá; er galdsku fyrir gjørdir mínar.

2. Henni það forsvars lagðir lið, Lærisvein þinn kjærasta, blóð-faðminum nær breiddist við, blíð-qvendið sorgfullasta; eins mæni eg sálar augum mín, uppá blessaðar náðir þín, heill vor og hjálp einasta.

3. Blessa mig því að blessast mér, í blessuðu þínu nafni, himin, jørð, góts, sjór, gripirnir, með gnóglegu nægta safni; í þitt krossskjól eg innslý nú, aungvann því burtu rekur þú; þó sé minn synda jafni.

4. Líttu í medaumkan til mín, miskunar augum þínum, líkt sem til móður leitsku þín, lødrandi í tárum sínum; hjartað gleð, hugga, styrk og stið, steindauða trúna reistu við; vertu hjálp vanmátt mínum.

5. Hafi eg þig, Drottinn! hyrði eg ei, um himin né jarðar geingi, ó Jesú! seig því ecki nei, aðstoðar-menn eg feingi; já sjálfur fremst mitt forsvar þá, forsvarslausum mér liggur á, vertu Guð vel og lengi.

6. Einkum nær eg skal falla frá, forsvar þitt láttu mæta, géf mér og líka aumum þá, þíns eptirdæmis gjæta, í fyrstu sköpun sképnanna, skord-festíng millum vatnanna, þennann dag rédir ræta.

7. Eins veri festíng umsjón þ!n, enn nú á þessum degi, fordjarfs sérhvørs í milli og mín, medan eg lífs hér þreyi, sé mér Guds blessan himin hlír, hólpin þar sál mín undirbýr, Amen hvar uppá segi.



## Þridjudags Andvarpan,

útaf Þridja Ordinu.



Sannlega segi eg þér, í dag skalltu vera med mér í Paradís.

Minn elskulegasti Herra Jesú! gladur vil eg undirtaka med hinum heilaga Davíd, segjandi: sælir eru þeir, hverjum misgjørdirnar eru fyrirgéfnar. Þad reindi sá ydrandi til þinnar hægri handar krossfesti ræníngi,

hverjum þú lofaðir með svornum eyði Paradís. Eg má maklega játa, að eg er aungvu betur á mig kominn enn hann, en þar á móti gleður mig sætleiki þinnar náðar. Minnstu þar fyrir, Drottinn minn! mín í sömu miskun þinni, og gleymdu syndum mínum, eg vil feginn aptur á mót minnast þín með yðran, bæn, trú og þakklæti. Drottinn minn! varðveittu mig í dag frá allri ólucku og ógjæfu, svo eg komi ecki í neina fordjörfun lífs né sálar. Géf mér svo hreina yðran sem þessum ræníngja, en lát mig hana ei svo leingi undandraga. Drottinn minn Jesú! þú aðgreindir á þessum degi í fyrstu sköpun vötnin og þurrlendið. Þú frelsaðir eirninn sál ræníngjans úr flóði eilífrar fyrirdæmíngar, og létst hana ná þurrlendi þinnar gjæðsku, og því fagurblómg-

ada landi lifandi manna. Láttu mig svo, Drottinn minn! leysast úr flódi allra eymda og hörmúnga syndanna, daudans og helvítis, svo eg nái med minni sálu þurrlendi eilífrar hvíldar og blessunar. Og sídast í mínu andláti segdu til sálar minnar: í dag skalltu vera hjá mér í Paradís. Þetta veittu mér, minn Drottinn Jesú! blessadur ad eilífu, Amen.

Lagid: Eilífur Gud og Fadir kær.

Gladvær med Davíd syngur sér, sála mín fagurlega, sá sem qvittur vid syndir er, sælu ber æfinlega; reynà mátti þad ræníngin, réttlátur af þér, Drottinn minn, med eydi, eilíflega.

2. Eg má þó, Jesú! aumann mig, öllu syndugri játa, enn eg treisti samt uppá þig, ei munir tapast láta; Drottinn þar fyrir minnstu mín, miskunsemi og gjædska þín, sárin græd mörg úr máta.

3. Eg vil feiginn aptur á mót, med ydran, trú, þacklæti, og minnar bænar hjartans

hót, heidra þíns nafns ágjæti, afstírdu, Drott=inn! enn í dag, ógjæfunni frá mínum hag, svo aungri meinsemd mæti.

4. Þú adgreindir á þennann dag, þurr=lendi og vøtn med fyrsta, þú frelsadir med sama slag, sál ræníngjans þess tvista, glot=unar vesta flódi frá, føgru þurlendi létst hann ná, heilagra himna=vista.

5. Lát mig einninn, Lausnari minn! leys=ast úr daudans flódi, eymd og vítis! inntek=inn, frá allskins sorgar=módi, uppá þurrlend=id eilífrar, ununar, gledi og blessunar, veit mér þad Guds Son gódi.

6. O Jesú! lát mig ydran hreint, eins og ræníngjann géra, en ecki þanninn yfrid seint, ávøxt svo mætti bera. Ønd mín þad sídarst ord þitt kís: eflaust skalltu í Paradís, hjá mér í vegsemd vera, Amen.

---

## Midvikudags Andvarpan,

### útaf Fjórda Ordinu.

Gud minn! Gud minn! hvar fyrir hefur þú yfirgéfid mig?

O minn gjædskuríkasti Jesú!

maklega ætti og mætti sála mín á hverjum degi minnast á þína sáru qvøl og pínu, hvør svo bitur og beisk var, að sú fagra sól (hverja þú á þessum degi í fyrstu skøpun gjørdir) af blygdun og meðaumkan, misti sína byrtu, í hverju myrkri þú, af ofraun qvalanna, qvartaðir um, að þú værir af Guði þínum Føður, yfirgéfinn. Æ! hvað mætti eg aumur syndari (sem forþénað hefi út að kastast í ytstu myrkur), skammast mín dags og sólar-byrti að líta. Því fell eg nú hér til fóta, minn elskulegasti Jesú! með ydrandi hjarta, einninn prísa þína miskun og elsku, því með þessu þínu qvala hrópi, hrópaðir þú mig inn í himneska sælu. Því hrópa eg nú aptur, og segi: lofa þú Drottinn, sála mín! og gleym ecki øllu því góða, sem hann hefur veitt þér. Drottinn minn

Jesú! frelsa mig frá því ytstu myrkra qvala hrópi, frelsa mig þennann dag og alla tíma frá allri neyd og ólucku. O gódi Jesú! eg bid þig, ad þegar eymda og mótlætis ský, vilja fyrir mínum augum þína nádar-geisla hylja, þá láttu ljós þinnar huggunar skjærast skína í hjarta mínu. Gud var þinn Fadir midt í þinni mestu qvøl, hann er og minn Fadir í þínu nafni, hvørt heldur eg qvelst edur kjætist. O Jesú! þú sem um stundarsakir varst af þínum Fødur yfirgéfinn, yfirgéfdu mig aldrei ad eilífu. Og á minni sídurstu stund, þá þau náttúrlegu ljósin følna fyrir mínum augum, þá veri þetta þitt hróp, sætt hljódfæri og hljómur, sálu minni til eilífrar huggunar, Amen.

Lagid.

Lagið: Af djúpri hryggð ákalla eg þig.
Eður, Um dauðann géf þú Drottinn! mér.

Æ skyldi sála minnast mín, maklega Jesú góði! þegar þú qvala þoldir pín, þakinn með unda blóði, himins nær fogur sól það sá, sitt skin af bligðun misti þá, harmandi sem í hljóði.

2. Af þeirri krossins qvala-pín, í qveinstaf sárann færir, að af Foður ástkjærum þín, yfirgéfinn þú værir, sólina þetta sorgar, þar, sú fyrst þennann dag sköpuð var, sem af meðaumkan særir.

3. Æ! hvað mætti eg aumur þá, ætíð skammast mín, líta, dagsins og sólar augsýn á? ætti eg að gráta og síta, því fell eg nú að fótum þér, Frelsarinn góður! tak við mér; hør þann mátt hvørgi slíta.

4. Einninn prísa eg, ó Guð minn! ástsemdar þinnar blóma, hrópaðir þú mig hér með inn, í himneskann dýrðar ljóma, aptur því hrópar øndin mín, eilífa þøck og lofgjørð þín; sú raust skal sífellt hljóma.

5. O Jesú! greið minn andar-hag, frá ytstu myrkra qveini; einninn varðveit mig enn í dag, af allri neyð og meini, mín augu þegar móstug ský, mótlætinganna kastast í, væg þú þá mínu veini.

6. Já, komdu til mín, Herra hír! med huggunar þinnar ljóma, fyrst ad Gud var þinn Fadir dír, þá færdur varstu í dróma, veit eg þad hann minn einnig er, øfugt þó stundum falli mér; í Frelsarans nafni fróma.

7. Fyrst þú, minn Gud! forlátinn varst, forláttu mig aldreji, eins nær heims ljósin umbreitast, á mínum sídsta degi; veri þá hróp og hørmúng þín, hljómur fegursti sálu mín, huggun svo hreppa megi, Amen.

---

## Fimtudags Andvarpan,

útaf Fimta Ordinu.

Mig þyrstir.

Jesú Kristí Guds Son! þú lifandi lífsins brunnur og uppspretta, af hverjum þad lífandi lífsins vatn flýtur, til allra þyrstra og ørþjádra manna, lífga og endurnær mitt hjarta. O Herra Jesú! hvad sár var þín pína? hvad stór þín qvøl? hvad dum-

rædileg þín elska? þú hefur vatnid sem alla adra náttúrlega hluti skapad. Þú frammleiddir vatnid fordum af einum steini, þú umsnérir vatninu í vín, þó þyrsti þig, og fékst ecki nema gall og edik í þínum þorsta. Svala þú nú, Drottinn minn! þyrstri sálu minni nú í dag, af brunni nadar þinnar. O Jesú! þig þyrsti eptir mér og sálu minni. Láttu mig einninn þyrsta eptir þér og þinni miskun, en ecki eptir galli heimsins vellystínga, þó holdinu sætt finnist. Drottinn minn! láttu mig ecki bjóda þér gall hræsninnar, heldur hreint vatn ydranarinnar, vín elskunnar og þacklætisins. O gódi Jesú! gef ad eg frá mér hrindi syndanna og prettvísinnar galli, en elski þad skjæra vín sannrar gudhrædslu. Drottinn Jesú! þig þyrsti á krossinum, þig þyrstir enn nú í þínum naud-

stoddum limnm, géf ad eg beri þeim vín gódgjørda og miskunar. Herra Jesú! þú skapadir á þessum degi í fyrstu skøpun, fiska og fugla, mér til atvinnu. Blessa þú mér þær sképnur og allar adrar, í dag og alla tíma. Allra sídarst þa daudans þorsti og hrigla mig ásækir í mínu andláti, þá dreiptu á sálu mína sætleiks-víni himneskrar huggunar, og frelsa mig frá eilífum qvala-þorsta, fyrir þinn sára pínu þorsta, Amen.

Lagid: Jesús sem ad oss frelsadi.

Jesú! lifendra ljós og brant, líffins uppsprettan sanna, af hverri vatnid andlegt flaut, til allra þystra manna; lauga mitt hjarta, Lausnari minn! líffins af þessum brunni, og endurnær í sérhvert sinn, svølun svo þar af finni.

2. O Herra Jesú! hversu sár, hjarta þíns gjørdist pína, hørmúng sú mér í huga stár; hvør grundar elsku þína? voldug þín skapti vildin trú, vøtnin og hluti fleiri, vatninu af steini veittir þú, vín létst þad gjørt í kjeri.

3. Drottinn Jesú! sami þyrsti þig, þá var ei annars kosta, enn ediks gall blandan ógéds-lig, í þeim sárasta þorsta, svala, lífs kóngur sæll! í dag, sálu orþjádri minni, þorstlátri eptir þessum hag, þínum af nádar brunni.

4. Eptir sál minni þyrsti þig, þyrsta mig einninn láttu, eptir þér, heill mín hjartanleg, en heimsins gall-vináttu, géfdu eg ecki géti hissi, gédfelda medal þjóda, hræsninnar gall svo hafi eg sísst, Herra minn! þér ad bjóda.

5. Heldur ad beri eg, Herra! þér, hreint vatn ydrunarinnar, eisku og þackar eitt vín kér, en ei þad gall hræsninnar, prettvísis remmu og synda súr, sjá til eg frá mér hrindi, en aptur mig í ástum trúr, alleina vid þig bindi.

6. Þig sem fyrr þyrsti, þyrstir enn, í þín-um naudlídandi; géf, eg þeim fyrir gódverk-in, gledi vín sé berandi; minn Jesú! svo þér mætti þad, miskunar verkid sanna, gédjast betur enn gall blandad, gjafa sé hræsnaranna.

7. Mér til atvinnu, minn Jesú! mig svo þad skortir eigi, fugla skaptir og fiska þú, hid fyrsta á þessum degi, allar þær sképnur enn í dag, og adrar hverju sinni, blessadu mínum holdsins hag, hjúkrandi miskun þinni.

8. Þegar mig sídarst sækir heim, sárleg-

ur daudans þorsti, dreiptu á mig á degi þeim, Drottinn! med þínum kosti; huggunar sætleiks himneskt vín, hressi þá sálu mína, frelsa mig af forþéntri pín, fyrir kross=mædu þína, Amen.



## Føstudags Andvarpan,

útaf Sjøtta Ordinu.

Þad er fullkomnad.

O minn elskulegasti Jesú! í allann máta má eg sanna, sjá og smacka, sætleika þinnar nádar, og enn nú á þessum degi, þar nóttin er fullkomnud, en dagur aptur kominn. Því ber þér þar fyrir fullkomlega hjartans þacklæti. Svo er og mín skylda ad minnast á fullkomnan minnar Endurlausnar, sem skédi fyrir þína pínu, þá þú vitnadir, ad allt væri fullkomnad. O Drott=

inn Jesú! þú fullkomnadir á þessum degi med þínum Födur og heilögum Anda sköpun allra hluta og sképna, einnin sköpun mannsins. Þú fullkomnadir og, á þessum degi vikunnar, endursköpun mannsins, þad var Endurlausnar verkid. Lof og dýrd sé þér ad eilífu. O Jesú! þú sem fullkomnadir allar fyrirmyndanir og spádóma, uppá þig hljódandi, svo fullkomna þú, í og med mér þína nád og kjærleika, og rétta elsku til þín. O mildi Jesú! lát þetta þitt ord vera stadfesting trúar minnar, og fullkomid traust minnar sáluhjálpar. O sæti Jesú! fullkomna þú allt, í og med mér á þessum degi, þér til lofs, en mér til farsældar. Og þá mitt líf er úti og fullendad, þá leid þú mig til eilífrar fullkomnunar, í himnaríkis dýrd og gledi, Amen.

Lagid: Þá linnir þessi líkhams víst.

O Jesú hjartans elskan mín! allann tíd má eg sanna, sætleika nádar sætann þín, sjá sæ eg hann og kanna, þad enn í dag, minn þýdi Gud, þar nóttin er nú fullkomnud, dregst upp skyn dags-brúnanna.

2. Hjartans hér fyrir þér ber þöck, þreyngir mér skyldan meiri, sannlega ad mín sál minnist klöck, miskunar þinnar fleiri, verk endurlausnar eitt þad er, um hvad þú sjálfur vitnadir, fullkomnad: hýrt sem heyri.

3. At þessum degi, Þrenníng blíd! þú fullkomnadir ríka, alls heims sköpun, med öllum lýd, og mannskepnunnar líka, eins fullkomnadir enn í dag, endur-sköpun á mannsins hag, mikla eg miskun slíka.

4. Frelsarinn sem fullkomnadir, fyrirmyndanir þínar, og spádóms rædur út af þér, eins láttu gøtur mínar, fullkomnar í fótsporum sín, frid, nád, og réttri ást til þín, Drottinn! sem aldrei dvínar.

5. O minn Jesú almáttugi! ord þerka pínu þinnar, stirkur veri og stødug sé, stadfestíng trúar minnar, eitt sáluhjálpar efalaust, atkéri mitt og besta traust, inn til útfararinnar.

6. At mér fullkomna eins í dag, til æru

þínu nafni, allann minn lífs og audnu hag, í þér svo farsæll dafni, en þá fullkomnad er mitt líf, eina fullkomna veit mér hlíf, í útvaldra sælu safni.

## Laugardags Andvarpan,

útaf Sjøunda Ordinu.

---

Fadir! í þínar hendur fel eg minn Anda.

O Jesú Kristí! þú lifandi Guds Son, þú mitt ljós og líf, til þín kém eg á þessum degi, med minni bæn og andvarpan. Eg vil nú minnast vid þinn føla talandi munn, med hverjum þú í þínu andláti, fólst á hendur þínum himneska Fødur, þína sál. Drottinn minn Jesú! eg seigi enn nú, í þínu nafni er Gud minn Fadir, bædi í lífi og dauda, og eg trúi því stadfastlega, ad þú hafir hér med befalad honum mína sál, því hún er þín eign, já, eg og eirninn befala þér mig í dag

med sálu og lífi, æru og em-
bætti, vinum og vanda-mennum.
Í höndum þíns himneska Föðurs
og þín, vil eg feginn lifa og deya,
vaka og sofa, þar hræðist eg
aungva ólucku. O godi Jesú!
þú sem hneigðir þitt höfud nidur
í þínu andláti, hneig þú mitt
hjarta til þín. Þú, minn Drott-
inn! hvíldist á þessum degi í fyrstu
sköpun. Þú, minn Jesú! hvíldist
á þessum sama degi í gröfinni,
ad fullkomnudu Endurlausnar-
verkinu, og eptir þetta sídasta
ord hvíldist þín sál, vid heilag-
ann líkama skilin, í höndum
þíns Föðurs, svo lát mína sál í
mínu andláti hvílast í útbreiddum
blód-fadmi þínum. Jesú! þitt
sídasta ord í pínunni, sé mitt síd-
asta á lífs línunni, Amen.

Lagid: Herra Gud í himnaríki.

O Jesú ljós og lífgun mín, lýstíngar skin

sálunni, bljúgur í dag eg beidi þín, med bæn og andvarpan minni.

2. Vil eg nú vid þinn minnast munn, og mig þacklátann sýna, følur í deyd sem Fødurnum, fólst á hønd sálu þína.

3. Sjálfann Drottinn í sannri trú, sóma hvørs þú ert jafni, kjærann minn Fødur kalla eg nú, í krossfestu þinu nafni.

4. Hér med fólstu í hendur hans, Herra Gud! sálu mína, af því tel eg mig einn til sanns, eign gjørvallann þína.

5. Einninn befel eg eins í dag, umsjónar blessan þinni, æru, líf, sál, embættis hag, med ástvina velferdinni.

6. J høndum þínum Herra minn, hrædist eg vondt aldreji, hvørt vaki, sef, geing út eda inn, eins þó eg lifi og deyi.

7. Herra sem til mín hneigdir þitt, høfud í andláts mædu, hneig þú og til þín hjartad mitt, huxun, skilníng og rædu.

8. Herra Gud í dag hvíldi skjær, af handa verki sínu, eins bid eg hvílist ønd mín kjær, í útbreiddu skauti þínu.

9. Eins hvíldist Jesús eptir hel, undir graf-steinsins merki, ad fullkomnudu ysrid vel, því endurlausnar-verki.

10. Eptir sídasta ordid hans, ønd Jesú

hvîldist líka, hafin úr skauti hoðlegs ranns, í Herrans fadmi ríka.

11. Blód-fadm þinn ætíd breid þú mér, best í andláti mínu, ond fäi hvíld nær æsin þver, í ástsemdar skauti þínu.

12. Son Guds þad ord er sagdir þú, síd-ast í pínu þinni, sé mitt og líka í sannri trú, á seinustu lífs stund minni.

---

## Bæn á Sunnudøgum.

Miskunsami nádugi Gud og Fadir! þú sem oss hefur sendt þinn elskulegann Son Jesúm Kristum í heiminn til endurlausnar, hvør ed sitt heilaga ord hefur oss eptirlátid, sem ad er kraptur til sáluhjálparinnar øllum trúudum. Fyrir þessa þína blessada nád þøckum vér þér af hjarta, og bidjum þig, géf oss þinn heilaga Anda, hvør vor hjørtu vøkvi, svo sem regn og snjór jørdina, og verki eina lif-

andi trú í oss, svo vér vard-
veitum ordid í sidsömu hjarta,
færandi ávöxt í þolinmædi. O
Jesú! gef nú ad þessi dagur sé
vorum sálum einn réttur hvíld-
ardagur, ad þær mættu í þér
hvílast, svo sem líkaminn á frá
sínu erfidi ad hvílast. Já, ad vorar
sálir mættu í rósamri hvíld sitt
andlegt erfidi fremja. Þessi dag-
ur er Drottins dagur; Drottinn
vor! gef ad hann mætti hjá oss
verda einn Drottins dagur, en
einginn illgjörda dagur, af vorri
tilstofnan. Heilagi Fadir! þessi
dagur er þér helgadur, helga þú
oss í þínum sannleik, þín ord eru
sannleikur. Blessa oss alla í
dag, blessadur Jesús, sem ert
blessadur ad eilífu. Innsiglist
oss sú blessan, sem af kennimönn-
um Drottins í dag frammflutt
verdur, og safnadarins Amen,
sem er innsigli allrar kirkju þjón-

ufstugjørdarinnar. O Jesú! lát ofs med þinni blessan blessada verda, dag og nótt, í voku og svefni, svo vér um sídir einn eilífann Sabbats dag mættum halda med øllum útvøldum í himnaríki eilíflega. Amen.

Lagid: Jesús Guds Son eingétinn.

Mildasti fridar Fadir, Frelsarann sendir ofs, Jesús þinn Sonur þad er, þreyngdur á hardann kross, ønd keypti ædstann sóma, ord sitt og lætur hljóma, trúudum hjálparhnoss.

2. Þessa nád þín audkénnda, þøckum af alúd vér, Anda þinn ofs virdst senda, audsýn hans verkanir, í hjarta mannsins hørdu, sem hret og snjór á jørdu; svo auglýsist ávertir.

3. Sé þessi Sabbats dagur, sálum þín, Drottinn! hér, einn réttur hvíldar-hagur, hvílast ad mættu í þér, sem hold í frá erfidi, eins verdi þær í fridi, en bægi ei búksorgir.

4. Þessi Guds dýrdar dagur, Drottins kalladur er, géf í hjá ofs heilagur, hann verdi svo sem ber, enn aungva íllsku semji, erfidid heilagt fremji, í hvíld til heidurs þér.

5. Hann er, heilagi Fadir, helgadur sjálfum þér, helga oss, hábléssadir, heita svo mættum vér, hédan af lífs-tíd lánga, lát oss þad farsællt gánga, inn til þess æsin þver.

6. Innsigliſt oss nú líka, árnan og blessan hér, Kriſti med kenníng ríka, sem kennimann hvør framber, og Amen allrar þinnar, embættisgjørdarinnar, sem þitt innsigli er.

7. Blessa oss blessan þinni, blessadur nótt og dag, í vøku, úti og inni, eins vorn svefnværdar hag, svo vér þá heims viſt hættum, halda þitt Sabbath mættum, med himneſkt hørpu-lag.

---

## Bæn á Jólum,

### af Kriſti Fædíng.

O þú elſkulegaſti Jesú! þú fagra morgun ſtjarna, þú himneſki brúdgumi kriſtninnar, þú lifanda ljós, lífsins uppſpretta, þú himinsins ſtigi, þú sem fæddiſt af meyarlífi, fátækum reifum vafinn og varſt lagdur í einn aſna ſtall! þig lofum og dýrkum vér allir sem

eigum og meigum eilíf not hafa af þinni Fæðíng. Ó þú himneska ljós! hvers ljómi leyptradi í kríngum fjár-hyrdarana á morkinni, láttu þitt nádar-ljós lýsa yfir oss nótt og dag. Þú blómlegi Davíds-qvistur! sem fæddist og uppsprattst undir annarlegu valdi, og á þeim fridsama heimsins tíma, unn oss, sem leystir erum frá djøfulsins valdi og hertekníngu, í þínum blessada fridi, bædi ad lifa og deya. Láttú þinn frid vera vort sigurmerki, og fastasta firmament á milli vor og allra vorra óvina, sýnilegra og ósýnilegra. Ó Jesú! þinn fædíngar fognudur sé oss einn himneskur og eilífur fognudur. Ó sæti Jesú! sem í einn asnastall varst lagdur, hvíl þú blessadur í hjarta voru, og lat oss í þér blessada tímanlega og eilífa hvíld hljóta og hafa. Ó minn elsku-

legasti Jesú! géf oss svo þessa þína Fædíngar-Hátíd ad halda hér á jørdu, ad vér um sídir mætt-um med þeim himnesku herskara í eilífri dýrd undirtaka og samsýngja: dýrd sé Gudi í upphædum, dýrd sé Gudi vorum um aldir alda og ad eilífu, þeim Eina og Þrenna, Amen Amen.

Lagid: Heidra skulum vér Herrann Krist.

Miskunsamasti minn Jesú, morgunstjarna fegursť ertu, kærstur brúdgumi kristninnar, komíngur allrar veraldar, Kyrieleison.

2. Þessi lifandi ljóminn klár, lífsins uppspretta síd og ár, fridur af meyu fædd-ur var, fátækum reifum vafdur þar, Kyrieleison.

3. Lágt varst í asna lagdur stall, lofar þig samt vort bæna ákall, sem af þér fáum not og nád, nýa blessan og farsælt rád, Kyrieleison.

4. Þú sem hyrdurum, Herra minn, himneskann byrtir ljóma þinn, nád þín upp-ljómi lífs vors hag, lífandi oss bædi nótt og dag, Kyrieleison.

5. Kóngsins blómlegi qvisturinn, kóngs undir valdi uppsprottinn, annarlegu, af eiginn lýd, á fridsömustu heimsins tíd, Kyriel.

6. Unn oss sem leistir erum frá, andskotans valdi og daudans þrá, í ljóssins fridi ad lifa hér, líka burt deya farsælir, Kyriel.

7. Láttu þinn frid vort firmament, farsæld vorri svo mætti þént, fyrir oss standa innsiglad, æfinnlegt sigur-merkid þad, Kyriel.

8. Fædíngar svo fögnudur þinn, fylgi oss allt í himininn, blessadur hjartad bygdu vort, blessunar svo þad finni ei skort, Kyriel,

9. Séf oss svo halda hátíd þín, hér medan nádar-ljósid skín, ad vér á sídan útvaldir, uppbyrjum nýa, í dýrd hjá þér, Kyriel.

10. Undirtakandi í upphædum, æra sé Gudi í himninum, einum og þrennum æ og nú, eilífleg verdi lofgjörd sú, Kyriel.

---

# Nýárs Bæn.

Þú lifandi lífsins uppspretta, sem aldrei gefur upp ad renna, minn sætasti Jesú! þú himneski

blód=brúdgumi minnar sálar, þú sem adgreint hefur stund og tíma, mánudi og ár. Blessud er þín speki, vísdómur og almætti, sem aldrei nockru sinni skeikar. Í þínu nafni høfum vær enn nú eitt ár aflifad og útendad, og uppbyrjum annad nýtt, hvad allt vora eptirkomandi æfi=daga kortar; því segjum vér þér af hjarta lof og þackargjørd, fyrir alla þína óteljanlega velgjørnínga, andlega og líkamlega á øllum umlidnum tímum oss veitta, svo eingin ólucka hefur oss né neitt vort fordjarfad, heldur hefur þín hønd hlíft og hjúkrad oss, svo sem hanan sínum únga=kindum, svo sá helvítski hræfugl djøfullinn hefur ecki grandad oss, hvørki med króki svikanna, né neti freistínganna, ei heldur med blódugu sverdi ofsóknanna. Lofad sé þitt heilaga nafn ad eilífu! Og fyrirgéfi oss

þín føðurleg gjæðska allar vorar syndir, ávirdíngar, yfirtroðslur og óþacklæti. Margt íllt er gjørt, sem ógjørt skyldi en fátt það gott gjørt, sem gjørast átti. Marg-háttuð var þín blessan yfir oss, en fá þackar-orð af oss aptur þér í té látin. O Drottinn! fyrirgéf, fyrirgéf oss, fyrirgéf þú vorar syndir í Jesú nafni, og fyr-ir hans heilaga blóð. Fram-veigis biðjum vér þig, eilífi Guð, Faðir, Sonur og heilagur Andi, að þú géfir oss øllum eitt blessað og farsællegt nýtt ár í Jesú nafni. Blessa oss alla á sálu, lífi og lík-ama, blessa oss af hæðunum og undirdjúpunum, af himninum, jørðunni, sjónum og sképnunum, og það í Jesú nafni. Króna árið með þinni góðfýsi, og lát þín fótspor drjúpa af feiti. Vernda vorar sálir frá fordjørf-uninni, vora líkami frá mein-

semdinni, vora æru frá vanær-unni, hús og heimili frá skadræd-inu, góts og peninga frá tjóni og töpun og þetta allt í Jesú nafni. Se þitt almætti múr og gyrdíng kristinndómsins, blessun og prýdi Kóngsins og hans kon-únglega húss, frelsi og fridur födurlandsins, adstod yfirvalds-ins, heidur og hylli höfdíngjanna, ljós kénnidómsins. Vertu, Drott-inn vitska og speki dómaranna, eblíng og aukníng hússtjórnar-innar, og þad allt í Jesú nafni. Vardveit vor á medal hreinann lærdóm þíns heilaga ords, med réttri tíðkan Sakramentanna. Blessa vora atvinnu, og uppfyll vora naudþurft. Vardveit oss frá húngri og hallæri, hardind-um, dýrtíd, stór-sóttum, offókn-um, pestilentiu og brádum dauda, og allt þetta í Jesú nafni. Veittu ydran þeim syndugu, en vidhald í

því góða þeim frómu, lækníng þeim sjúku, svølun þeim hreldu, lausn og frelsi þeim herteknu, og þetta í sama Jesú nafni. O Herra Jesú! vor blessaða nýárs gáfa, gef að þitt heilaga blóð og umskurnar sár, sé svølun, skjól og athvarf øllum freistuðum sorgþjáðum sálum, sem enn nú velkjast í sorg, sítandi og sveimandi í tára flóði. O Drottinn! annast þú guðhræddar eckjur og føðurlaus børn, og heyr þeirra andvarpanir, styrk þúngaðar qvinnur, og snú þeirra hrygð í gleði. Og nú seinast í einu orði, vertu ó Guð, vor allra Guð og Faðir í Jesú nafni, svo vér í Jesú Kristó blessaðir, mættum vorrar æfi-ár, mánuði, vikur og daga svo útenda, að vér til þess blessaða eilífa nýárs, mættum komast í himneskum fognuði, og þig Drottinn, einn og þrennann, sjá, lofa

og heidra, med øllum útvøldum, um óendanlegar aldir alda, Amen.

Lagið: Gjæðsku Guðs vèr prísum.

Sætasti sálarinnar, sárþrútni brúðguminn, sem ei géfur upp að renna, æðsti lífs brunnurinn; þú hefur aðgreint allt, staði, ár, mánuði, stundir, standa svo tímar bundnir, uppá rím ófallvallt.

2. Blessuð sé best þín speki, blessist almáttur þinn, er oss til lofs uppvekí, einninn vísdómurinn: fyrir þitt náðar nafn, árið høfum aflifað, uppá þitt nockuð klifað, eykst svo vort æfi safn.

3. Af hug því sýngjum snjalla, samróma lofgjørð hans, fyrir ástsemi alla, Andar og líkamans, þetta umliðið ár, einginn ólucka snerti, af því hann sjálfur merkti, kristniunnar høfuð-hár.

4. Sem hænan úngum hjúkar, hefur þú, Drottinn minn! eins veitt ástsemdir mjúkar, svo ei gat hræfuglinn, grandað né gjørt oss mein, ei með aungli svikanna, ei neti freistínganna, ei er sverðs oßsókn nein.

5. Eitt er og alla þvíngar, oss fyrirgéf nú það, ár tímans ávirdíngar, íllskur og van-þackað, íllt høfum einnig gjørt, ógjørt

hvad ætíð skyldum, og fátt gott hitt sem vildum, en þó í eingu verdt.

6. Marghátttuð var þín mildi, marghátt-uð báſemi; eins of-fá orð sem skyldi, aptur til þacka í té; forlát, forlát oss nú, í Guðs Sonar gjæðsku nafni, gleimdu því vondsku safni; ósk vor er auðmjúk sú.

7. Framvegis þrenníng þíða, þig biðjum allir vér, oss standi af ári blíða, í hönd nú gánga fer, blessa það öllum allt, með bless-un af haudri og hæðum, hafi og þeirra gæð-um; gjör það blessað gjörvallt.

8. Géf það krínt góðsemd þinni, af gnægtum drjúpi sín, frels af fordjörfuninni, Faðir sæll, kristni þín, önd, líf og aura-safn, æra, stand, hús, heimkynni, og hjarð-ir frá töpuninni; jafnt allt í Jesú nafn.

9. Sé þitt almættið eina, algyrdtur hlífð-ar-múr, kríng þinn kristindóm hreina, kóng, þegna, börn og frúr; veit, Drottinn! vitsku safn, öllum yfirvalds mönnum, með eblíng og styrkleik sönnum; einninn í Jesú nafn.

10. Í hjá oss ókreinkt standi, orð þitt og Sacrament, bú vor og þörf bætandi, blessa hvað hefur oss lént, hept allskins háska safn, húngur, pest, heimsókn nauða, harðindi og bráðann dauða; allt það í Jesú nafn.

11. Ydrun syndugum sértu, svølun ángrádum þín, frómlindum vidhald vertu, voludum adstod sýn, sjúkum lækninga safn, herteknum frelsi og fridur, festu nád alla vidur; eins þad í Jesú nafn.

12. O Jesú! árs-gjøf nýa, umskurnar þinnar hnoss, blód, sár og benja-hlýa, blessist nú øllum oss, helst þeim sem hrigdin slær; sé þad á sál edur lífi, samt eckjum, børnum hlífi, þúngudum frelsi fær.

13. Allra sídarst ánefnum, æ sért Gud Fadir vor, hjartkjær í øllum efnum, æfinnar blessa spor, jafnann í Jesú nafn, ár, vikur, alla daga, inn til þess dýrdarlega, nýárs í himna hafn, Amen.

---

# Bæn útaf Pínunni Kristí.

Herra Jesú Kristí, Sonur lifanda Guds, þú saklausa Guds lamb, sem burt-tókst heimsins syndir! Furdanleg var þín elska og óumrædilegur kjærleiki til vor aumra syndugra manna, þar þú, Herra Jesú! ei einúngis íklædd-

ist voru holdi og tókst á þig þjóns mynd, heldur og einnig leiðst þar ofann á hrygd og hørmúng, smán og bríxl og óteljanleg qvalræði, og með það síðasta þann smánarlega krossins dauða, oss, sem verðugir vorum eilífs dauða, til endurlausnar. O hvílík elska! sá heilagi líður fyrir þá syndugu, sá réttláti fyrir ránglata, Skaparinn og Herrann fyrir þrælana. Háleitlega sé þitt heilaga nafn blessað, minn Jesú, að eilífu. O Herra Jesú! þú varst sá fríðasti, en gjørðist sá aumasti; sá máttugasti, en gjørð st sá vanmáttugasti, já, líkari maðki en manni, fullur sára og benja. Drottinn Jesú! lát mér til hjarta gánga þína pínu, svo hún deyði og krossfesti illar gyrndir hjarta míns mér til hreinsunar og helgunar. Láttu mig, Drottinn minn! hafa not og gagn af pínu þinni. Pín hrygð og

ángist sé mín hjartans gledi, þín bønd mitt frelsi, þinn blódugur sveiti smurning minnar sálar, sem allt daudans eitur og ofbod sefi og mýki. Þinn hrakníngur sé mín hvíld og rósemi; þad hád sem þú leidst, mín upphefd; þín høgg sem þú þoldir, einn ástarkoss Guds; þín ákløgun mitt forsvar; þín krossfesting, mitt sigur merki; þitt úthellt hjartablód, mín hugsvølun. Drottinn minn Jesú! láttu þínar blódbenjar vera mitt skjól og athvarf, svo sem steinholurnar dúfunnar. Hreidradu mig, minn Herra Jesú! í heiløgum undum þínum, svo sá helvítski hræfugl djøfullinn kunni mér augvann skada ad gjøra. Láttu mig, Drottinn minn, hvílast í þínum blód-fadmi, bædi lífs og lidinn. Séu þínar blódbenjar til gladværustu sjónar minni sálu í mínu andláti, svo eg

sé þér innlífadur æ og eilíflega, Amen.

Lagið: Jesús Kristur á krossi vár.

Lifandi Guðs Son Lausnarinn! lambið saklausa Jesú minn! sem burttókst misgjörð manna, æ! hvað var hugur ástkjær þinn, til aumra syndaranna?

2. Herra þá klæddist holdi manns, hér með tókst líking þénarans, hörmúng og hrigðir nauða, smán, brixl, háðúng, bölvanir hans, og beiskannn krossins dauða.

3. Oss sem að líða áttum það, er nú hjálpræðið forþénað. O hvílík elskugjæðska! helgunin leið fyrir holds verknað; hvørs kauntu framar æskja?

4. Réttlátur þoldi ránglát pín, reirdist Guð fyrir þræla sín, hann svo bønd af þeim hristi, háleitust prísist hjálpin þín, Herra minn Jesú Kristi.

5. Friðasti Jesú, Frelsari minn! fríðleik gjørvallann mistir þinn, líkari maðki enn manni, megtugum rírdist mátturinn, í myrkvum qvala-ranni.

6. Lát mér til hjarta hørmúng þín, Herra minn! gánga og beiska pín; hún svo krossfesta kynni, banvæna grimd í brjósti mín, til blessunar sálu minni.

7. Láttu mér, Drottinn! líkn í té, sem leidst og holdir bríxl og spé, hriggd þín mitt hjartad sefi, bond þín mitt frelsi og blessun sé, blód-sveitinn lækníng gefi.

8. Verdi hann smurníng sálar mín, sefi ofbod og daudans pín, eitur hans endurbæti, fyrir þinn hrakníng hvíld mér sýn, í heilögu dýrdar-sæti.

9. Hogg, álögur og hádúng þín, í hriggilegri krossins pín, sé mitt forsvarid sæta, ástar koss Guds og upphefd mín, þá eg skal nockru mæta.

10. Krossfestíng sú sem sýnd var þér, sigur-teikn mitt skal jafnann hér, og rifja-blód þitt rauda, ein svølun veri og eblúng mér, eins í lífi og dauda.

11. Stein holum dúfan sem i sín, svo hreidrist eg í undum þín, ad djefull ei grand mér gjøri, þær benja-skorur skickjan mín, skjól og athvarfid veri.

12. Lát mig þar hvíla í lífi og deyd, lausann og frí af allri neyd, sén þær sálu minni, inndælust sjón vid andláts skeid, inn-lifast svo þér kinni, Amen.



# Bæn á Páskunum,

útaf Kristí Upprisu.

O Herra Jesú Kristi! þú blessadi sigur-høfdíngi, sem djøfulinn sigrad hefur, daudann uppsvelgt í sigur, syndina afmád, helvíti niðurbrotið. Skjært skín mér fyrir sjónum þitt heilaga réttlæti, og prýdilegt Páska-klædi þíns sigurs, í hverju þú uppreist oss syndugum mønnum til réttlætis. Æ! hvad følur og aumlegur varstu ad líta, þá þú alblódugur héckst á krossinum? en hvad skjær og dýrdlegur ertu nú í þinni upprisu? Hjartans gledi er mér þetta; því þó eg hrekist og velkist í vesøld og volædi hér í heimi, þá trúi eg ad eg muni med øllum trúudum, fyrir þina upprisu verda þér um sídir líkur, dýrd-

legur, forklárađur, fríđur og fagur. Æ! blessađur sértu minn Jesú! ó þú himneski Jóseph, í hvítu klæđi þíns réttlætis. Um Jóseph lét Pharaó Kóngur úthrópa, ađ hann væri landsins fađir, en um þig talar og hrópar þinn himneskur Fađir: sit þú mér til hægri handar, þángađ til eg legg óvini þína til skarar fóta þinna. Já, þú ert sá rauđi og hvíti vinur þinnar brúđur kristilegrar kyrkju, útvalinn á međal margra þúsunda. O Herra Jesú! lát mig hafa not og gagn af þinni dýrđarlegri upprisu, klæđ mig ljómandi skrúđa þíns réttlætis, og glóandi skarti þíns hjálpræđis, afklæđ mig tötrum syndanna, og ljótum lörfum þrettvísinnar, svo eg þurfi ecki titrandi í forsmán ađ útrekast frá þínu augliti, heldur ađ eg mætti teiknađur vera í mínu enni, svo sem

Guðs barn, og erfa og ødlast eilífa sáluhjálp, með þeim útvøldu alskínandi og forklárudu Guðs bornum í himneskri dýrð. Drottinn Jesú! gef mér daglega að upprísa af syndunum, fyrir ydran og lífnaðarins betran, að eg megi sjá þig og skoða, lofa og dýrka í himnaríki, í óendanlegum fognuði, og halda þar eilífann Páskadag, með øllum þínum útvøldum, Amen.

Lagið: Guðs Son í grimmu dauðans bend.

Sigur høfðínginn sæll Jesú! er sigrað djøfulinn hefur, svelgðir upp dauða í sigur þú, syndirnar fyrirgéfur, niðurbrautstu helvítið hart, hér af skín mér réttlætið bjart, og Páska-klæðis sigur sá, Halleluja!

2. Í því mér ertu upprisinn, og til réttlætis gjørdur; æ hversu varstu útleikinn, undir krossbøli hørdu; enn hvað dýrdlegur ertu nú, í upprisunni sæll Jesú; svo ønd minni géfur á að sjá, Hallelúja!

3. Hjartans gleði og huggun trú, hér af sál minni streymi, í vesøld þó eg velkist nú,

voladur hér í heimi, efalaust treystir ondin mín, upprisu fyrir verkan þín, líkur þér verd ad líta uppá, Hallelúja!

4. Um Jóseph kóngur úthrópar, ad hann lands Fadir væri; um þig Gud Drottinn eins talar, þinn elsku Fadir kjæri; sit þú vid hønd þá hægri mér, hér skulu þínir óvinir, liggja til skara fóta fá, Hallelúja!

5. O þú Jóseph himinsins hír, í hvítu réttlætis klædi, blessadur kom þú, Drottinn dír, daudans afleistur mædi, kóngur og vinur kristninnar, kom þú nú sæll til brúdinnar, valinn þúsundum fleiri frá, Hallelúja!

6. O Herra! lát mig hafa not, af helgri upprisu þinni, kom mér uppá þitt kónglegt slot, klæddum úr saur-slík minni, reifudum skrúda réttlætis, og raudu skarti hjálprædis, umskiptilegur er eg þá, Hallelúja!

7. Eins teiknadur í 'enni mín, ó Jesú! lát mig vera, ei svo rekist frá augsjón þín, og hljóti forsmán bera, heldur eg erfi og ødlist þar, eilífa gledi vegsemdar, herskara Guds á himnum hjá, Hallelúja!

8. Upprísa géf mér æ af rót, frá øllum lasta keimi, fyrir ydran sanna og ysirbót, í ødrum svo mætti eg heimi, líta þinn dýrd-

ar hærstann hag, og halda eilífann Páska-
dag, hjálpa mér slíku hnossi að ná, Halle-
lúja.



## Bæn af Kristi Uppstigníng.

O þú heilagi voldugi Herra! þú Drottinn Jesú Kristí, þú öbluga Leonið af kyni Júda, sem sigurinn hefur unnið, á þínum og þinnar kristni óvinum. Vér aumir syndugir menn, höldum nú í dag, minníng þinnar dýrðarlegrar uppstigníngar, hvar fyrir vær, sem eigum og meigum eilíf not hafa af þinni himnaför, segjum þér hjartans lof og þackir. Þú hefur sundurslitið himnana, og ert ofankominn, þú ert í hæðina aptur farinn og hefur oss gáfur gefið, já, upplokið oss dyrum hjálpræðisins, hverjar vegna Adams syndar aptur-byrgðar voru. Þú uppstjegst af

fjallinu Oliveti, því í þér höfum vér kristnir sannann frið, fögnuð og gleði sálarinnar. Þú blessaðir með upplyptum höndum þína Lærisveina, þá þú uppstiegst. Upplypt eirninn þinni hendi og blessa oss, svo blessumst vér. Þú situr til þíns Föðurs hægri handar í dýrðinni, og allir þínir óvinir eru undirlagðir undir þínar fætur. Undirtroð, ó Herra Jesú! djöfulinn undir vorar fætur. Bið þú þinn Föður fyrir oss, og legðu oss syndugum hjá honum líknar-mál. Drag þú, ó góði Jesú, vor hjörtu til þín í hæðir himnanna, því þar er vort rétta heimili. Lát oss hafna syndunum en elska réttlætið, lát oss svo vareygðarsamlega lifa, sem ættum vér þá og þá héðan að fara. Opna þitt hjarta og gleð oss, heyr vorar andvarpanir, og hjálpa oss, meðtak vorar sálir, og

leys oss frá allri neyd, þar til vér um sídir med sál og líkama verdum uppnumdir í loptid, á móts vid Drottinn og verdum svo hjá Drottni alla tíma. Þér med Födur og heilögum Anda, sé lof og dýrd, um aldir alda, Amen.

Lagid: Endurlausnarinn vor Jesú Krist.

O Jesú! Guds útvaldi þjón, öblugt af Júdæ rót Leon, sigur fékkst unninn, sem er til vor runninn, því qved eg þig vid tón.

2. Drottinn! nú skal vor dags minníng, dýrdarlegust þín uppstigníng; eins hvörja eigum, af hvörri taka meigum, eilífa uppbyggíng.

3. Himnana, Gud! þú sundurskleitst, syndugra þegar til vor leitst, aptur uppfarinn, oss er gjöf því kjörin, happ þad, mín sál! vel veitst.

4. Upplaukst lífs dyrum ædst Guds mynd, Adams til=luktum fyrir synd, uppstégst med gjædum, af Oliveti hædum; nýtur þess mörg mannkynd.

5. Upplyptri hönd þinn arf Jesú, uppstíg=

andi blessadir þú, upplýpt eins henni, yfir oss svo renni, blessunar not þau nú.

6. Sjálfa Fødursins hægri hlid, i hædinni þú situr vid, óvini lægdir, ad þeir nú frábægdir, eins verdi, legg til lid.

7. Fyrir oss bid þú Fodur þinn, forlíka svo vor málefnin, dragdu ver hjørtu, hédan til þín burtu, hátt upp í himininn.

8. Lát þú oss sporna løstum vid, svo lærum elska réttlætid, í vareygd freya, vidbúnum ad deya; þar til æ legdu lid!

9. Opna þitt hjarta, oss svo gled, andvarp vort heyrdu líka med, hjálp vorum øndum, og hrygdar leys af bøndum; lát børn þín slíkt fá séd.

10. Allt þar til verdum uppnumin, á móts vid Gud í himininn, med sál og lífi, sorganna frá kífi; og ølum þar aldurinn.

11. Heill þá ad ødlast, Herra minn, hjálpi mér þínu kraptur þinn; þér, Fødur og Anda, fagurlega án enda, løgd sé til lofsgjørdin.

---

## Bæn til heilags Anda á Hvítasunnu.

O þú heilagi Andi! þú himn-

eſki áſtar-eldur, ljós og ljómi guddómlegrar veru! þig lofum vér, þig tilbidjum og ákollum vér, ad þú bleſsadur komir til vor, og upplýſir oſs. Þú ofanſtégſt yfir Jeſú Poſtula í ſýnilegum elds-loga, yfir ſérhvørn þeirra þig ſetjandi, á þeſsari heilögu hátíd. Yfirſkygg oſs med þínum heimuglegum krapti, ſvo þad mætti á oſs þó opinberlega ſjáſt, ad vér ſéum þitt heimili og herbergi andlegt. O þú heilagi eldur! upptendra brennandi elſku í oſs til allra himneſkra gjæda. Mýk þú og verm vor hjørtu, med il þinnar nádar, hugſvala oſs í of-hita eymdanna, og burttaktu alla kjælu og ofbod, hrelling og qvída ſamvitſkunnar. Lauga og hreinſa vor hjørtu med Jeſú Guds Sonar blódi. Græd þú allann ſvída, ſár, bólgu og brota ſyndanna. Lækna þú allar meinſemd-

ir hugarins. Þú blessad aljós, upplýs myrkur vorra hugskota, og leid oss í allann sannleik. Þú blessadi leidtoginn, leid oss hættulaust gégnum alla hættu og hörmúng, til sælu-hafnar eilífs lífs. Þú létst Jesú Kristi Postula tala ýmislegum túngum Guds stórmerki; blessa þú vort túngumál, ad vér tölum um þínar dásemdir; lát oss ei tala þeirri gömlu túngu ógudlegra heidinna manna, þeir ed af Gudi ecként vita, hvérra túngumál er bölv, hád, og skammarleg ord, hvad ad reiknast má túngumál djöfulsins; heldur lát oss, ó heilagi Andi! tala þeirri túngu er þú sjálfur kénnir, sem er Psálmar, Lofsaungvar, andleg qvædi, bæn og þackargjörd; og þó vorir vitsmunir og málfæri séu hálfverk, já, opt hégómlegt og heimskulegt, þá gjör þad allt áheyrilegt og full=

komlegt fyrir eyrum Drottins, þángað til vér um síðir komumst þángað sem hálf-verkið tekur enda, og ein eilíf og himnesk fullkomnan skeður í þeim himneska háskóla eilífrar dýrðar, þar vér fáum skilið og numið þau óumræðilegu orð, sem Postulinn Páls heyrði í þeim þriðja himni, og einginn kann hér í heimi að undirstanda og útskíra. Hér um bænheyr oss góði heilagi Andi, með Føður og Syni lofaður og blessaður, eirn Guð um aldir alda, Amen.

Lagið: Kom Skapari heilagt Andi.

AE! kom blessaður edla ljós, Andi heilagur til vor inn, hvíld og ileinging hjá oss kjós, helgunar æðsti gjafarinn.

2. Yfir Postula ofann stégst, elds-loga sýnilegum í, á þessari hátíð; þeim og létst, þinn krapt auglýsa uppá ný.

3. Yfirskyggi hann eins í dag, oss með-ur náðar-krapti sín, lát það á vorum lýsast hag, að lifandi séum býli þín.

4. Tendra þinn skjæranu elsku-eld, í oss gudlegra dygda til, verm þú og mýk vor hjørtu hreld, med himneskrar þinnar náðar-il.

5. Í sár-hitanum svala oss hér, sorganna, og kjælu neydinnar, ofbodi, hrellíng výli ver, og vondum qvída samvitskunnar.

6. Hreinsa nú best vort hjartans-sár, med Herrans blódi og innra manns; græd alla bólgu, svída, sár, og syndanna þrota banvænann.

7. Hugaríns lækna hverskyns neyd, hugskotsíns upplýs myrkurin, hættulaust gégnum hørmúng leid, himnaríkis í føgnudinn.

8. Aftékst Postulum orda-skort, ýmsum túngum begáfadir, túngumál blessun teikna vort, svo tali um þínar dásemdir.

9. Lát oss ei tala túngum þeim, tídkudu fordum hád og blót, í forblindudum heidnis heim, heiti þad Satans mælgi ljót.

10. Heldur lát oss adhyllast þær, hverjar þú verdur kéimandi, Psálmar og andleg qvædi kjær, kriddud med bæn og þakklæti.

11. Enn þó vit bædi og málid manns, mjøg dofid, veikt og hálfverk sé, gjør þad fyrir eyrum gjafarans, gyrnilegasta verkfæri.

12. Þángað til loks vér lendum þar, lífsins sem gjörvallt hálfverk dvín, og eilíf fullkomnan uppljómar, í þeim dýrðar háskóla þín.

13. Vanskilið þá ei verður þar, hvað vita þurfum Guði hjá, sem Páll í himni þriðja þar, þessa heims fékk ei gitskað á.

14. Um þetta bænheyr oss þinn lýð, Andi heilagur mystikunar, með Føður og Syni fyrr og síð, frægst lofaður um aldirnar, Amen.

---

## Bæn á Bænadøgum fyrir Guðs kristni.

Eilífi, almáttugi, sterki og voldugi Guð! þú Drottinn Zebaoth! ver þín fátæk børn, þín litla hjørð og saudir þíns haglendis, innflýum til þín á þessum háskasamlegum qvøld-tíma heimsins, á hverjum djøfullinn stormar í sínum limum, á móti þinni kristni, og vill hana uppsvelgja, sérdeilis fyrir hann skjæðasta óvin krossins Kristi, Tyrkjann,

og adra týranna. Sjá þú, Drottinn, hann hefur íllt í sinni vid oss, og vill oss eydileggja. Var fyrir, Drottinn! minnstu vor. Vér medkénnum, vér høfum syndgast med vorum forfedrum, verid ógúdlegir, og fallid frá þér, og forþént þína reidi. Enn nú, Drottinn, vér viljum snúa oss til þín, því hvør kann annar ad hjálpa oss? vér skjálfum og titrum, sverd þinnar reidi er útdregid, og óvinanna hugur er grimmur vordin, børnin eru ad fædíng komin, og veina þúnglega, rís þar fyrir upp, Drottinn! og hjálpa oss, fyrirgéf oss vorar syndir, og útrétt þinn armlegg oss til hlífdar. Uppljúk þínum augum, og sjá grimd þess blódgíruga týranna, uppljúk þínum eyrum, og heyr hans gudløstun, med hverri hann lastar þitt heilaga barn Jesúm, og forsmáir hans pínu.

Vakna upp Drottinn vor Gud! og útaus þinni grimd yfir lastara þins Sonar. Lát kristninnar óvina hendur og kné skjálfa sem Balthazars, set hríng í þeirra nasir, og beitsl í þeirra munn, sem Senacheribs, lát þá um hæl snúast og til skammar verda, sem óvini Davíds. Minnstu, Drottinn! ad vér erum leystir med þíns Sonar blódi, og erum hans brúdur, lát oss ei til skammar verda, því vér vonum á þig. Ummúra þína kristni med þinni vernd, vertú einn eldlegur múr á millum þinna sannra Israelíta og þeirra óvina, þá viljum vér þacka þér og þjóna alla vora lífdaga. Auglýs þú, Drottinn! ad þú hjálpar þeim er þér treysta, svo øll verøldin medkénni þitt maktarveldi. Bænheyr oss, vor Drottinn! og lát vort ákall koma til þín í Jesú nafni, Amen.

Lagið: O Guð vor Faðir sem í himnar:

Drottinn Zebaoth óþreitanlegs almættis! innflýum vér þín aumu børn, undir þitt náðar veldi, sú lítilmótleg litla hjørð þíns hagkendis, hrópar til þín um hjálp og vørn, heimsins á þessu qvøldi, hatskur því djøfull hreisir sér, hans limir storma líka, Tyrkinn og aðrir ómildir, ofsókn hefjandi slíka, í móti kristni þinni ei þver, þeirra ofstækið ríka.

2. Sjá, Guð! í þeirra sinni fólgin svika ráð, hyggja þeir eydilegging ein, yfir oss skuli detta, þar fyrir, Drottinn! þenk til vor þinni náð; játum nú synda margføld mein, og mjøg forskuldað þetta, ógudlegir því vorum vér, veg géngum forfedranna, syndgað høfum, fallið frá þér, og forþént reiði sanna, enn aptur til þín umvendir, ydrustum misgjørdanna.

3. Hver kann oss annar hjálp að sýna heldur enn þú? óvina fyrir haturs hug, og handar þinnar sverði, skjálfum vér aumir, tístum bæði og titrum nú, þúnglega veinum, þrítur dug, það sem børn jóðsjúk verði, upprís, Drottinn! og ekki bíð, álít fáráða sauði, þyrm og fyrirgéf þínum lýð, þreingir að neyð og dauði, upplúttu náðar augun blíð, ástormar drekinn rauði.

4. Heyr þess týranna himin-løstun, Herra kjær! Frelsarann Jesúm foraktar, og forsmáir hans pínu, vakna, minn Gud! og blódhund þennann burtu fær, útaus grimd þinnar ákéfdar, yfir hans daga línu, Balthasars skélf þú ønd og hné, hnignandi lát hann fara, beitsladur Senacherib sé, set hríng í nøs hans skara, afmá þá Davíds óvini, engum þeim sverdid spara.

5. Minnstu þess, Drottinn! endurleistir ernm vér, med blódi Krists og beiskri pín' brúdur Jesú ástkjæra, eldlegum múr því umgyrd alla, Herra! hér, hjartans Israelíta þín, þad skal þér eilíf æra, hjálpadu þínum litla lýd, láttu sjá mátt þinn ríka, aptur þig lofum allann tíd, æ hér og sídar líka, í ást og mýskun eining blíd, álít þú beidni slíka, Amen.

---

# Bænir á Missiraskiptum.

---

## Bæn í inngaungu Sumars.

O þú heilagi, vísi og voldugi Gud! hvad dásamlegt er þitt nafn í øllum løndum? hvad lof-

leg er þín skickun? hvad almátt=
ugt er þitt ord? þú hefur adgreint
tímana, þú hefur skickad Sumar
og Vetur, frost og hita, regn og
snjó, hver skickan aldrei nockru
sinni skeikar, svo leingi þad ver=
øldin stendur, og med því vér
høfum enn nú aflifad einn Vet=
rar tíma, og byrjum nú nýann
Sumar=tíma, því þøckum vér þér
af hjarta, alla fødurlega velgjørn=
ínga til lífs og sálar oss veitta
nótt og dag. Vér høfum bygt
eitt kallt land, þó hefur þú, Drott=
inn! klædt oss tvøfoldu klædi, sem
er réttlætid og hjálprædid, já, and=
legri og líkamlegri blessan hef=
ur þú prýdt oss, þú hefur hlíft
oss fyrir djøflinum og hans vél=
um, fyrir stór=hardindum, land=
plágum, líf=tjóni og lima=broti.
Blessad sé þitt heilaga nafn ad
eilífu. Vyrdstu ad fyrirgéfa oss
vorar blódugar syndir, illsku og

óþacklæti í Jesú nafni, og nú framvegis, gef oss eitt gott, blídt og blessad Sumar í Jesú nafni. Króna þú missirid med þinni gódfýsi, og lát þín fót-spor drjúpa af feiti. Blessa þú vorar sálir med þínu heilaga ordi og Sacramentis. Lát þinn frid vera yfir oss og þína blessan á vorum strætum. Blessa himininn, lopt og jørd, vøtnin og sjóinn og allar sképnur, lát oss meiga glada sýngja: Veturinn er umlidinn, regn og snjór er í burtu, blómstrin hafa knappana fengid, og turtildúfan lætur til sín heyra í voru landi. Blómga þú jørdina med ávexti, svo dalirnir standi þickvaxnir af korni, og qvikfénadurinn beri sinn ávøxt. Lát vor aldini blómgast, og vor matarhús audgast. Bevara fødurlandid frá hervíkingum, hættri sótt og háska øllum, lát oss í fridi

vorrar atvinnu leita, og útrétta vorar høndlanir til lands og vatns með farsæld. Blessa þú kónglega stjórnan og alla landsins yfir-herra. Prýð kénnidóminn þínu hjálpræði, en blessa husstjórnarinnar bjørg og næríng. Uppfyll allra nauðþurft eptir þínum dýrðar ríkdómi í Kristó Jesú. Lát vor hjørtu blómgast með ljóma guðhræðslunnar og góðra dygða, svo sumarið sé svo vel innra í oss, svo sem hið ytra, upp og niður og allt um kríng. Lát oss með sumar-fuglunum sýngja fagrann sumarsaung lofgjørðarinnar þínu nafni. O Jesú! vertu oss øllum ein blessuð sumar-gjøf, og leið oss um síðir í það himneska fagurblómgað sumar eilífrar dýrðar, Amen.

Lagið: O Guð! heilagur, heilagur.

Þú voldugasti og vísi Guð! vegsamist náð

þín hábleſsuð, og nafn um gjørvar grundir, hvað lofleg er þín ſkickan ſkír? ſkorðuð almætti boð þín dýr? aðgreint féckſt allar ſtundir, ſkickaðir þú það, kaldann Vetur, Sumar-hitinn, milda meigi, ſkeikar ſú boðun úr ſkorðum eigi.

2. Nú byrjum ſumars nýa tíð, nú er aflifuð vetrar hríð, þøckum vér því áſtlega, andar og líffins allar þér, óteljanlegar velgjørðir, náðugar náttúrlega; land eitt, lítt heitt, høfum bygt, þú hefur lagt oſs hjálpar klæði, og réttlætis ſkrúdann oſs réttir bæði.

3. Andlega bleſsan oſs létſt fá, eirnin líkamans þorfum ná, afvendtir alla vega, djøflum, líf-tjóni, lima neyð, land-plágum, ſótt og bráðum deyð, ſlíkt príſum ſífeldlega, Jeſús, Jeſús, allar vorar, ærið ſtórar, íllſku ſyndir, fyrir þínar oſs forlát undir.

4. Faðir! þig biðjum framvegis, farſælt ſumar til árgjæðis, oſs veit í Jeſú nafni, góðfýſi krýn miſsirið með, máttugt þitt drjúpi fótſporið, af nóglegu nægta-ſafni; Guð minn! Guð minn! orðið hreint og Sacramentin, bleſsa oſs bæði, frið þinn og allskonar géf oſs gjæði.

5. Himininn bleſsa af hæðum þín, hafið,

land, vøtn með sképnum sín, að séum gladt sýngjandi, vetur og snjór umliðið er, útspringa knappa-blómstrið fer, dúsan leikur í landi; Jesú, jörð sú, ávøxt beri og aldin færi, en alfrjófgaður, kjœti vor matar-hús qvikfénaður.

6. Føður-landið forsvara best, friðinn og blessan viðteingist, landið og lýðs atvinna, kóngliget veldi og stjórnan styð, styrk kénni-dóm og hús-standið, lát alla farsæld finna, uppfyll, og still, allra nauðsyn, nægtum með, í náð og friði, øllum svo verði þitt lán að liði.

7. Lát hjørtun blómgast liljum best, lif-andi dygðir auglýsist, að sumarið svo vel standi, innra sem ytra, allt um kríng, upp og niðri í þessum hríng, lofsaung fugla leikandi: vert þú, vor nú, sumar gjøfin, sem oss hefur, síðast alla, til himin blómg-vaðra sumar-salla, Amen.



## Bæn í inngaungu Vetrar.

Deilífi Guð og miskunsami Fað-ir! þú allra hluta Skapari og stjórnari! undir festíng þinnar náðar lifum vér enn nú, og eig-

um enn nú 'einn vetrar tíma að uppbyrja. Því þøckum vér þér fyrst af hjarta allar føðurlegar velgjørðir, sem þú á þessu umliðna sumri og alla vora æfi oss veitt og géfið hefur, til lífs og sálar, svo eingin ólucka eður ó-áran hefur skaðað oss, eingin háskasemd grandað oss, heldur hefur þín hægri hønd hlíft oss, þín miskun hjálpað oss og blessað vorar sálir, þitt heilaga orð endurnært oss. Þú blómgaðir vora túnakra, og auðgaðir vor matar-hús, já, allsháttaða nægð og blessan gafstu oss. Blessaður sértu ørlátasti og góðgjarnasti gjafarinn, sem oss þínar sképnur án eptirtalna og betalíngs svo ríkuglega forsorgað hefur. En vér høfum syndgast og verið óþacklátir, mettað oss en gleymt þér. Ó Herra Guð! miskuna oss, og vert oss náðugur í Jesú nafni,

og í hans nafni bidjum vér all=
ir med einum huga, Drottinn
Gud! géfdu ofs gódann og far=
sælann vetur. Afstýr þú djöflin=
um, svo hann hverki eytri loptid
né grandi jørdunni edur sjónum
edur nockru ødru, heldur ad vér
mættum undir þinni blefsan
vakna og sofna, sitja og gánga,
reisa og rádslaga á sjó og landi.
Afstýr allri óáran, húngri, drep=
sótt, hardindum, dýrtíd, landplág=
um, stormi, skruggum, eldíngum,
snjó og vatnsflódum. Vertu hjá
ofs, Herra! þvíad qvølda tekur,
og á daginn lídur. Vertu, Drott=
inn! vort ljós, sem aldrei undir=
géngur, vertu adstod naudstødd=
um, frelsi fárádum, huggun
hreldum, hugsvølun þeim freist=
udu, og eilíf gledi øllum trúud=
um. Unn ofs med gledi veturinn
ad útenda, og Sumarsins blóma
(þóckníst þér svo leingi ad láta ofs

lífa) aptur að líta. Sérdeilis unn oss, að útendudum vorum lífs-stundum, eilífs lífs njótandi að verða, fyrir þíns blessaða nafns sakir, Amen.

Lagið: Kominn er kaldur Vetur.

O Faðir! ør gjæðskuunar, alla sem hluti skapaðir, ástsemdar ennú þinnar, undir fest-íngu lifum vér, Vetrar svo eptir eignm, uppbyrja nýa tíð, þakka þar fyrir meigum, þér einúng ráðar blíð, umliðinn er oss lénti, árgjæðis korn-tímann, sem þørfum manna þénti, þæglega farsælann.

2. Sálar og lífsins líka, liðsemdir allar þøckum vér, ó hjartans elskan ríka, ólucku og slisum forðaðir; eingin óáran skaddi; já, eckért háska grand; enn orð þitt allvel gladdi, ønd bæði og lífsins stand, akra létst allblómlega, auðgaðir matar-hús, øllum nægtum nóglega, náðugi Guð Jesús.

3. Án peníngs, ørlátasti, eptirtalnalaust forsorgar, gjafarinn góðgjarnasti, gjørvallar þínar sképnurnar; vér í vondsku framstreym-um, vanþøck látum í té; oss mettum, en þér gleymum, ó Guð! það forláti, Drott-

inn í einum anda, óskar þitt barna-safn, virdst oss Veturinn senda, værann í Jesú nafn.

4. Afstýr andskotans veldi, ei svo hann grandi lopti og sjó, og ellu hans ofbeldi, unn oss ad lifa í fridi og ró, sofa, sitja og vaka, sí-blessudum í þér, reisa og rádslag taka; svo ríkjum farsælir, húngri, drepsótt, hardindum, og hverju sem skada má, oss þínum únga-kindum, afvendtu lángt í frá.

5. Vertu hjá oss, ó Herra! hér því ad qvølda tekur mjøg; afpláua vort hid verra, voladra huggun glediieg, naudstøddum ná-qvæmasta, næríng og heilnæmi, athvarfid inndælasta; unn oss med gladværi, veturinn út ad enda, og sumarid líta fá; sídast lát þú oss lenda, í lífs høfn þér sjálfum hjá.



## Bæn þá skruggur, stormur og ógnanir gánga.

Drottinn Gud Zebaoth, þú sterki og hrædilegi Gud, þú Herra himins og jardar! vertu oss aumum mønnum nádugur, lát oss ecki fordjarfast í þinni reidi,

ver medkénnum vorar syndir, ad vér høfum forþénad þína reidi, ei sídur enn þeir, sem fordjørfud-ust í vatns-flódinu, edur þeir í Sódóma; og med því þú sýnir med þessari ógnan, ad þér búi eitthvad í sinni vid oss, því snú-um vér oss nú til þín, og fram-føllum fyrir þér med ótta og hrædslu. Drottinn! hvør kann ad standast fyrir þinni reidi? fjøllin hræast, jørdin skélfur, skóg-arnir hristast og villu-dýrin hlaupa í felur þá þú reidist, lopt-id leiptrar og skruggurnar duna, því þú ert einn voldugur og mik-ilsháttar Drottinn, þá þú fram-brunar í þinni dýrd. O Drott-inn! miskuna oss, og frelsa þitt fólk med fridi, vernda vort líf, hús og heimili, og allar sképnur. Settu ógnaninni sitt takmark, og bevara oss fyrir brádum dauda og allri ólucku í Jesú nafni. Láttu

byrtu þinnar nádar vera yfir oss, svo sem Israels fólki, þá myrkurin géngu í Egyptalandi. Haltu þinni hendi yfir oss, svo sem þú gjørdir Móisi hjá steininum. O Herra Jesú! vertu adskilnadur á milli vor og allrar ólucku. O þú heilagi Andi! teikna oss med blódi Jesú Kristi, svo sem dyrastafir Israels fólks húsa voru med Páskalambsins blódi rjódradir, svo fordjørfunin skadi oss ecki. Bænheyr oss vor Drottinn, heilagi Herra Gud, Heilagi sterki Gud, heilagi líknsami Lausnari, þú æfinlegi Gud. Drottinn blessi oss og vardveiti oss, Drottinn láti sína ásjónu lýsa yfir oss, og sé oss miskunsamur, Drottinn snúi sínu augliti til vor, og gési oss frid, Amen.

Lagid: Til þín heilagi Herra Gud!

Þú hrædilegi Herra Gud! heims-kringlunnar Skapari, miskunar hønd þín hábless-

ud, hún sé vor naudhjálpari, vorar med-kénnum misgjørdir, móti sem høfum drýgd-ar þér, vægdu líffins Lausnari.

2. Rek oss ei undir reidi-ljá, reidi þó forþént høfum, sem þeir fordum í Sódóma, og sockui í flódsins køfum; enn fyrst ad ógnan ytir þú, eitthvad sem búi í sinni nú, á þér med ydran løfum.

3. Framføllum því med felmtur vér, fallnir í hrædslu og qvída, hvør fær Gud stadist fyrir þér? fjøllin þad láta bída, þau rexna þegar reidast fer, réna dýrun-um kraptarnir, hristist veroldin vída.

4. Loptid í hædum leyptrar þar, líka skruggurnar duna, mjøg því ad ert mikils-háttar, minn Gud! þegar frambrunar, fé-muni vora frelsa og líf, fridur þinn sé vor allra hlíf, líkn, þá oss mest um munar.

5. Tilsettu ógnan takmark sitt, tepp slis og brádann dauda, legdu oss nádar lidid þitt, sem lýdnum vid hafid rauda, halltu yfir oss hendi þín, heill og blessan þá ald-rei dvín, í veini vorra nauda.

6. Olucku hlíf oss allri frá, ó Drottinn Jesú gódi! heilagi Andi hjá oss stá, Herra vors teikna blódi, eins og med lambsins aud-

kéndir, Ísraels dyra-stafirnir; svo standi þínar þjódir.

8. Bænheyr oss, Drottinn! bænheyr oss, bænheyr oss brenníng sæta, géf vorum sálum gledi koss, grát þeirra lát hann mæta, Ísraels blessan yfir oss sé; inn til hún verdur leidandi, sídast í sælu ágjæta, Amen.

---

## Bæn í stórsóttum, hardindum og landplágum.

Eilífi, miskunsami Gud! þú sem gjörir miskun í þúsund lidu, þeim sem þig elska og vardveita þín bod, en vitjar ránglætis fedranna a børnunum í þridja og fjórda lid, þeim sem þig hata. Vér þín fátæk børn, medkénnum ad vér høfum vel forþént þessa plágu med vorum syndum, já, og enn þýngra, ef þú vildir gánga í rétt vid oss. Enn nú, Drottinn! snúum vér oss til þín med audmýkt og ydran. Vér høfum

syndgast med vorum for-fedrum, verid ógudlegir og fallid frá Þér. Vér høfum ecki hlydt Þínum Þénurum, sem bodudu oss réttlætisins veg, heldur høfum vér kastad Þínu ordi, á bak oss. Vér høfum sjálfir med vorum syndum útdreigid Þitt sverd í gégn oss, og Því kémur Þín reidi yfir oss, já, er Því von ad reidist Þú, heilagi Herra Gud. O Drottinn! vert oss líknsamur í Jesú nafni, og lát ecki straffid eilíflega liggja á oss. Láti nú Þín hønd af, svo sem Þú sagdir til eingilsins á drepsóttar-tímanum. Lát Þína sól skína yfir oss, eptir Þá Þjáning er vér høfum lidid. Lát Þitt hjarta hneigast til miskunar yfir oss, snú voru fángelsi í vegsemd, sem Manassis. Snú vorum fjøtrum til frelsis sem Jobs, Þá hann bad fyrir sínum vinum; vér bidjum fyrir vorum vinum, sem eru

líf og gótz, æra og velferd, og allt þad þú ofs géfid hefur. Heyr vora bæn, sem Davíds, þeink þó ad vér erum þín born og þín handaverk, endurleystir med blódi þíns Sonar. Drottinn! ei lofa þeir daudu þig, og einginn af þeim sem nidurstíga til helvítis, heldur vér sem lifum, viljum kunngjøra þín verk. Drottinn! heyr þú vora bæn, og lát vort ákall koma til þín. Í þér, Drottinn! er øll vor von, þar fyrir lát þú ofs ecki neitt til skammar verda, Amen.

Lagid: Allir Guds þjónar athugid.

Mildasti Gud! er miskunar, minnist í þúsund lidu, þá sem óttast allstadar, ord þitt og nafnid vidur, en vondsku fedra vitjar hér, vitna þad fjórdu ættqvíslir, þeirra þig meta midur.

2. Fáradir játum, Fadir kjær! forþénta plágu slíka: þýngri þó yrdi, þeckjum vær, þad verdugt einnig líka, aptur vér snúum

idran med, audmýkt sýnandi og hlýdugt géd, miskunsemd rétt oss ríka.

3. Verkin vor hafa nafn þitt nídt, numu braut for-fedranna, ordum þín kastad, ecki hlýdt, umvendun kénnimanna; þannig gégn oss þitt ginntum sverd, geysandi hvers nú li.um ferd, í reffíng illverkanna.

4. Raunar er von þó reidist þú, réttlætis Herrann gódi! líknsamur vertu lýdnum nú, linadu straffsins flódi, ást þín sem fordum Einglinum, á þeim drepsóttar tímanum, reffíngum réna bjódi.

5. Láttu sól nádar skína skjært, skúr eptir þjáníngamma, lát hjartad til vor hneigast kjært, hretid mýk álaganna, í frelsi snú þessu fángelsi, sem fordum Job og Manasse, gjørdir þú, gjædskan sanna.

6. Bidja Job fyrir vinum vann, vorum eins nádar kjósum, eru þad líf, sál, aleigan, med æru og velstands résum, sem Davíds bæn, heyr beidni þá, børn þín og handverk minnstu á, happi svo gladir hrósum.

7. Ei sýngja, Drottinn! daudir þér, né dikis hyskid snauda, heldur sem lifum, Herra! vér, hólpnir fyrir þinn dauda, ákall vort heyrdu, ó Guds Son! í þér vor stendur trú og von, þeink til vor þinna sauda, Amen.

## Bæn um gódann Afgáng.

Almáttugi, eilífi, miskunsami Gud og Fadir vors Drottins Jesú Krists! þú sem mannsins líf og sálu myndadir, og lætur manninn aptur í burtu deya, og til sinnar módur jardarinnar aptur hverfa. Eg aum syndug manneskja veit, ad eg á íburtu ad deya, og veg alls holds gánga, vid vini og verold skilja, en tími og máti míns dauda er mér hulinn; þar fyrir bid eg: upplýs mig, Drottinn! med þínum heilaga Anda, ad eg kunni mig kristilega hér til ad búa, svo eg mætti deya réttlátra manna dauda. Upplýs mín augu, svo eg sofni ecki í daudanum. Géf mér hæga og sáluga dauda-stund. Géf ad mín útför verdi farsæl, fyrir dauda míns Drottins Jesú. Endurnær mína sál med holdi og blódi míns Drottins Jesú. O þú hei-

lagi Andi, mik og sefa alla ógn og ofboð dauðans, með þínum sætleika, og minníng Kristí blóðs sveita. Drottinn! eg bið þíns hjálpræðis sem Jacob. Lát mig í friði fara, sem Simeónem. Opna mér himininn sem Stephanó. Lát mig öðlast réttlætisins kórónu, sem Pálum. O Jesú! opna þær blóðfögru dyr þinnar síðu minni sálu í andlátinu. Géf mér fyrirheit um Paradís, sem ræníngjanum. Lát þína Engla flitja mína sál í faðm Abrahams, sem Lazarí. Lát mitt síðarsta orð verða sem þitt á krossinum, svo eg eilíflega sáluhólpinn verða mætti, Amen.

Lagið: Einn tíma var sá auðugur mann.

Eilífi almáttugi Guð! ætíð sé stjórn þín háblessuð, vors Jesú vísi Faðir, manninn létst forðum myndaðann, með sálu og lífi gjæddir hann, útför hans áskapaðir, að burtu deya maður má; til móður sinnar jarðar þá, aptur hverfa nær fer hér frá.

2. Af þessu veit eg aumur mann, einninn holds gøtu stíginn þann, gánga skal lífs míns lína, ást-vini qvedja og annad má, er mér þó tími og máti sá, hulinn um helfør mína, Drottinn! eg bid þar fyrir þig, þín nád mér stjórni volduglig, ad best til hennar búi eg mig.

3. Upplýstu nádugt augun mín, ad ecki sálu daudans pín, skadi, nær skilst frá líki, Drottinn! géf hæga dauda stund, dýrd og réttlátra manna fund, hjá þér í himnaríki, svo fái eg útfør farsæla, fyrir dauda míns Lausnara, sem best kann mig ad bevara.

4. Heilagi Andi himna-ranns! med holdi og blódi Frelsarans, eudurnær þú ønd mína, hans beisku qvala blód-sveiti, og blessadur þinn sætleiki, virdist þá vægd ad sýna, svo ofbod daudans ógn og neyd, allt verdi mér á þeirri leid, sefad og mýkt med Drottins deyd.

5. Herra! eg bíd þíns hjálprædis, hlacka sem Jakob æ til þess, ad líknir þínum þjóni, Drottinn! láttu mig fara í frid, fødurlands, heim í takmarkid, med sælum Simeóni, eins og Stephanó opna mér, í burtu þegar deya fer, himininn uppi þar hjá þér.

6. Lífsins kórónu lát mig fá, líka sem Pálum himnum á, Jesús, minn kjæri Krist-ur! sjálfur opnadu sálu mín, sídu dyrnar

blóðfögru þín, í andarslitrum ytstu, fyrirheit þitt eg fegin kýs, Frelsari minn! um Paradís, lofun ræníngja varð sú vís.

7. Í faðm Abrahams önðu mín, Englar blessaðir leiði þín, sem Lazari þess þjáða, andláts sé loksins orðið mitt, eins og síðast á krossi þitt, til trúar dugs og dáða, æfinlega hér svo eg sé, sáluhólpinn í voninni, en þar að raun og reynslunni.





# Annar Parturinn
innihaldandi
## Bænir,
fyrir adskiljanlegar Persónur.

### Kénnimanns Bæn.

O Herra Jesú Kristi! þú ædsti kennimadur og høfud safnadarins, þú sem hefur innsett þad heilaga prédikunar embætti, øllum trúudum til sáluhjálpar, og hefur sett mig óverdugann til þess embættis, ad fódra þína saudi med lærdómi heilags Evangelii: en med því eg kénni minn veikleika í svo heiløgu embætti, því bid eg þig, minn Drottinn Jesú! send mér nád og styrk þíns heilaga Anda, hvør mig upplýsi og

mínar varir áhræri, ad eg í þeſsu embætti, þér réttilega þjóni, og mér tiltrúudum ſøfnud. Upplýs minn ſkilníng, ad eg kunni réttilega ad ſundurkljúfa ord ſannleikſins, med hógværum áminníngum og heilſuſamlegum kénníngum, ſvo mér tiltrúad pund mætti ábataſt. Vardveit mig fyrir djøfulſins vélum, villu lærdómi og vondri hneixlan. Géf mér glóandi anda og djarflegann, ad niðurþagga þverbrotna, ſtraffa, ógna og áminna med allri hógværd, hugga og leidrétta þá voludu og villtu, ei fyrir ſakir ſkémmilegs ávinníngs, heldur vegna elſku þíns nafns. Lát mig ei letjaſt þó hiti og erfidi eymda og offókna mæti. Vardveit mér tiltrúada ſaudi, fyrir djøflinum og allri ólucku, lífs og ſálar. Gjør minna tilheyrenda hjørtu ydrandi ſem Ninivitanna, adgjæt-

in sem Lydiæ, brennandi sem tveggja Lærisveina til Emaus reisandi, svo þeirra hjørtu mætti verda sú góda ávaxtarsama jørd, og þeir mættu med Marja útvelja þad góda hlutskipti, og sídan mættum vér allir komast til eilífrar dýrdar og sáluhjálpar. Hér um bænheyr míg, minn sætasti Jesú! med Fødur og heiløgum Anda, blessadur um aldir, Amen.

Lagid: Jesús Kristur ad Jórdan kom.

Kjærasti Jesú kristninnar, konúngur háblessadur, sem ert hofud þíns safnadar; sá ædsti kennimadur, eitt prédikunar embætti innsett trúudum hefur, ad fódrud þar med sálin sé, sannann krapt þessu gefur, vakandi sist hvør sefur.

2. Uppá mig svoddan embætti, óverdann leggja vildi, ad eg med lífsins lærdómi, lífga hjørd þína skyldi; en eg veikleika á mér finn, Evangelió péna, af því bid eg, Gud! Andann þinn, adstod og nád mér léna, hjálp svo eg feingi séna.

3. Ahrœri varir Andinn sá, embætti rétt

eg þjóni, leidandi veginn líffins á, lýdinn frá sálar tjóni, svo ad hreint ordid sannleikans, eg. sundurkljúfi bædi, med áminníng til almúgans, og ebli góð heilræði: á pundi svo Guds míns græði.

**4.** Vardveit mig djøfuls vélum frá, og villu=lærdómi skjædum, hneixlun svo steitist aungri á, adstod mér send af hædum, dárlegann svo eg dugi lýd, djarflega og fast áminna, þverbrotna straffa, og þagga um síd, þeim til ógnanir finna, í hógværd verk þad vinna.

**5.** Vel hugga saudi vesalíngs, villta leidrétta og finna, ei vegna skammlegs ávinníngs, elsku nafns heldur þinnar, láttu mig ecki letjast, þó, lidsemdar Herrann sæti! ofsóknar hita og eymda sjó, í erfidinu mæti, byrdin svo brárnar væti.

**6.** Satans vardveittu svikum frá, saudina hjardar minnar; eins láttu hjørtun ydrun fá, og Ninivita þinna, eirninn Lydíu adgjætinn, ávøxt svo gódann færi, Emaus reisu andinn þinn, elsku brennandi næri, trúar-gjædum svo tæri.

**7.** Utvalid láttu ætíd þeim, æru hlutkéstid góda; sídan virdstu oss sjálfur heim, á sælu landid bjóda: hér um bænheyr þinn

hjardar-lýd, hjartans Jesús ástkjæri! med Fødur og Anda fyrr og síd, frægst lofadur sem bæri, af øllu því øndu hrærir, Amen.



## Veraldlegrar stéttar persónu Bæn.

Miskunsami, nádugi Gud! þú réttláti dómari alls holds, þu sem sett hefur dómara og valdsmenn í þína kristni, og hefur mig óverdugann til þess embættis kallad, því bid eg þig, Drottinn! send mér anda vísdóms og skilníngs, ad eg hafi þinn ótta mér fyrir augum. Géf mér ad vardveita þitt løgmál, og gjæta þeirra gódu ráda Jetro og Jósaphats, elska sannleikann, en hata ágyrnd, styrkjandi eckjunnar málefni, og láta þann fødurlausa rétt ské. Géf ad réttlæti, miskun og sannleikur séu mér kjærari enn vinir og frændur, dýrmætari enn gáf-

ur og nútur, svo eg jafnan mér fyrir sjónir setji, ad sá tími kémur, á hvörjum eg á reikníng minnar rádsmennsku ad gjöra, ad eg mætti þá trúrra þjóna laun ødlast, fyrir Jesúm Krístum minn Drottinn, Amen.

Lagid: Oss lát þinn Anda styrkja.

Alls holds dýrstur dómari, Drottinn réttláti minn! vor einka vidhaldari, veldis armleggur þinn, hverki þrútur ad dug né dvín, valdstéttir veittar hefur, til verndar kristni þín.

2. Eirn til embættis þessa, óverdugann tókst mig, þar inni þú mig blessa, Þrenníngin guddómlig, ótti þinn sé fyrir augum mín, anda skilníngs og vitsku, auki mér ástgjøf þín.

3. Ad læri eg þitt løgmál ríka, legdu til, Drottinn! nád, Jetro, Jósaphats líka, jafnan góð þiggi rád, elski sannleik af allri rót, órétt og ágyrnd hati, sem er þér þvert á mót.

4. Géf eckna mál ad stodi, ebli-fødurlausann, réttinn med raustn frambodi, ræni síst náúngann, fridur, sannleiki, miskun mæt, mér sé vinum ástkjærri, dírari enn gáfa ágjæt.

5. Svo mér fyrir sjónir falli, sú komi loksins tíd, réttlátur reikníng kalli, rádsmennsku, er þénti um hríd, trúrra þénara legg þá laun, fyrir Jesúm eg finni, farsældar ædstu raun.

## Bæn HúsSstjórnar-stéttar persónu.

O eilífi Gud og Fadir! þú blessadi húss-fadir og stjórnari þinnar kristni! eg þinn aumasti þjón (þjónustu-qvinna) er kalladur til þess embættis ad stíra mínu húsi, en med því eg orka einkis góds, af mér sjálfum til, án þín, því bid eg þig, minn Drottinn! ad þú veitir mér hjálp og fulltíngi í mínu þessu embætti, kristilega ad standa í þínum ótta. Lát mig ei késjast af búksorg og áhyggju, heldur vona uppá þig, sem ert sá örlátasti og máttugasti gjafari alls góds. Lát mig erfida og

abla med höndunum, það sem gott er, svo eg hafi að gefa þeim sem þurfstugir eru. Lát mig veita góða forsjón mínu húsi. Blessa þú mitt hús sem Abrahams, og lát mitt erfidi blessast; því nema þú blessir og byggir, vakir og verndir, þá er allt annað forgéfins. Géf að eg brjóti mitt brauð húngruðum, og leiði þá voludu í mitt hús. Géf mér gudhrædslu og skinsemi, svo eg sé ecki nein forrotnan í mínu húsi, edur abli mér vanblessunar með mínum syndum. Géf mér að elska mitt ekta hjarta, og með skynsemi vid það búa, ockar börn í Guds ótta að uppala. Lát mig vera góða fyrirmyndan í mínu húsi, géf mér nádugt yfirvald, dyggt þjónustufólk, góða nágranna, frid og heilbrygdi, heilaga þolinmædi í mínu erfidi. Drottinn minn blessi mig og alla þá í mínum húsum

**eru, og leid oss um sídir í þitt ei-
lífa dýrdar-hús á himnum, fyrir
þinn elskulegann Son Jesúm
Kristum, Amen.**

Lagid: Mikillri farsæld mætir sá.

Herra minn Gud! heidradur sért, húss-fad-
ir blessadi, þú sem kristninnar kraptur ert,
kóngur og verndari, hefur þú skickad hærst-
ur mér, heimili ad stjórna mín, en af því
til þess orkan þver, utan medhjálpar þín,
bid eg, minn Drottinn! þídi þig, þar til ad
styrkja í øllu mig, ærlega svo eg embættid,
áskundi gudrækinn, áhyggju og búk-sorg allri
vid, ætíd sé varfærinn, en uppá þitt treysti
einka lid, ørláti gjafarinn.

2. Uppá faung hussins allþarfleg, erfidi
høndin mín, gjarnan svo aptur géfi eg, Gud
minn! naudstøddum þín, heimili forsjón tæri
af trú, takist þad farsæld med, sem Abra-
hams mitt blessa bú, blessun svo fengi séd,
því ad nema þú blessir bæ, byggir þar,
vakir sí og æ, og verndir øllum voda frá,
verdur allt forgéfins, gudhrædslu og skynsemd
geim mér hjá, í gjørdum búskángsins, ei svo
vanblessist sveitinn fá, med syndum dag-
farsins.

3. Géf mér ad elska ekta-fljód, uppala børnin rétt, fólki sé fyrirmyndan góð, farsælist þá mín stétt, yfirvald nádugt, ærleg hjú, ágjætt nágranna lid, heilbrygdi og rósemd hjartans, trú, halltu þeim gáfum vid, erfidi, þol-lund góda géf, gagnist ødrum þad til eg hef, húngrudum þín svo brjóti eg braud, og beri þá í mitt hús, heimilis fólkid, eign og aud, annastu líknar fús, leid oss sídan til lífs úr naud, lifandi Gud Jesús.



## Ungmenna edur barna Bæn.

Jesú Kristi Guds eilífi Son! þú sem varst eitt úng-barn, og hefur med ordum og eptirdæmum auglýst, ad þú hefdir þócknan á þeim børnum er til þín verda borin. Eg þacka þér, minn Jesú! fyrir rétta skøpun, skírn og kristni, vit og skin, mál og minni, og allt annad gott mér veitt og gefid. Og eg bid þig framveigis, minn blessadi Jesú! fyrir þinn

heilaga manndóm og aldur, blessa minn úngdóm og aldur, lát mig vaxa og þróast, aukast og eblast í þinni náð, ást og kynníngu og öllum góðum dygdum. Lát mig stunda gott ad læra, en íllt ad hata, svo eg hljóti þína hylli, minn Gud! og allra gódra manna. Fyrirgéf mér syndir míns úngdóms, blómga mína æsku med blómstrum gódra dygda og frómleikans liljum. Vardveit mig fyrir slisum og allri ólucku, og öllum íllum selskap, géf mér þig einn ad óttast, hlýdni og æru mínum foreldrum og yfirbodurum ad sýna, svo þitt blessada fyrirheit á mér uppfyllist, svo eg bædi úngur og gamall, mætti verda þínu nafni til lofs og dýrdar, æ og eilíflega, Amen.

Lagid: Þú varst fyrir oss eitt úngbarn.

O Jesú! þú sem úngbarn varst, og þau

á náðar höndum barst, með orði og dæmum auglýster, að börnin væru gédfeld þér.

2. Faðir! eg þakka forsjón þín, fríða sköpun og kristni mín, vit og skin, rænu, minni og mál, margt annað gott fyrir líf og sál.

3. Bið eg nú, Jesú! þíði þig, þín náð framveigis leiði mig, fyrir manndóm og þroskann þinn, þroskann blessaðu og úngdóm minn.

4. Lát mig eblast í ást og dáð, æru, kinnsíng og þinni náð; gott læra jafnan og gleðjast þér, gjörvallt hata sem miður fer.

5. Hilli staðfasta hljóta þín, hilli mér eins af mönnum sýn, allann fyrirgéf úngdóms brest, æsku með dygða blómstrum fest.

6. Frómleikans liljum frjófga mig, forsvari náð þín ástúðleg, ólucku og slisum öllum frá; ei gyrnist vondann selskap á.

7. Æru nafni auðsýna þín, ást og hlýðni foreldrum mín, og yfirvaldsins allri stétt, unn mér eg þetta stundi rétt.

8. Ungum og gömlum eins það veit, uppfyllist mér þín fyrirheit, til æru og lofs í öllu þér, en til velferðar sjálfum mér, Amen.



# Þjónustufólks og úndirgéfinna Bæn.

Herra Jesú Kristi! lifandi Guds Son! Þú sem híngad í heiminn komst, ei til þess ad láta þér þjóna, heldur ad þú þjónadir ödrum; eg þinn audvirdilegasti þjón, sem á minnar embættis þjónustu audvirdilegrar ad gæta, bid þig, send mér þína náð, ad eg umfram allt, mætti þjóna þér med hreinu hjarta, og gleima aldrei þínum bodordum, þar næst med trú og hollustu ad þjóna mínum húsbændum og yfirbodurum, ei einúngis fyrir augunum, mönnunum til gédþecknis, heldur eptir þínu bodi og minni skyldu. Gjör mig sem Elieser í húsi Abrahams, og sem Jacob í húsi Labans, og svo sem Jóseph í húsi Pótiphars. Lát mitt erfidi blessast og luckast, ad

eg ætíð þeinki, að mér ber af mínu litla embætti reikníng að standa, að eg um síðir mætti, sem trúr þjón, komast til dýrðar frelsis allra útvaldra á himnum, fyrir sakir þíns blessaða og heilaga nafns, Amen.

Lagið: Dreckum af brunni náðar.

O minn Jesú ástkjæri! ei komstu á jørðu, að þér hér þjónað væri, í þjáníng hørðu, heldur þar með að þéna, þessum jarðneska lýð: eg bið þig lið mér léna, lífs um gjørvalla tíð.

2. Að umfram alla parta, þér einum tjái, þjónkan af hreinu hjarta, sem hrósun fái, og aldrei gjøri að gleima, góðu boðorðum þín, æ meðan eg á hér heima, í útlegðar hreisi mín.

3. Hér næst húsbændum veri, með hønd og munni, hollur hvað sem eg gjøri, í hverju sinni; en varist vél að sýna, og vinskap augum manns, agti meir æru mína, og æðsta boð skaparans.

4. Gjør í Abrahams inni, mig Eliesar, Laban og líka finni, hvørt lund hans flasar,

eirn Jacob, eg sem heiti; eirnin Pótíphars hús, Jósephs lastvara leiti, lát þad bænheyrt Jesús.

5. Æra mín æ svo grundi, ad eigi eg gjørra, reikníng á ríngu pundi, en raun uppskéra, sem alla mannraun miki, mælandi føgrum tón, Guds dýrdar gacktu í ríki, gistu þar triggda-þjón, Amen.

---

## Bænir,

fyrir þá sem gánga til heilags Sacramentis.

---

### Bæn ádur madur skriftast.

Eg aum syndug manneskja kém nu í dag, minn Drottinn! fyrir þitt nádar auglit, hladinn med stórum syndum, sem yfir gánga mitt høfud. Eg játa ad eg hefi syndgad í himininn og fyrir þér. Eg er sá fravillti saudur, tíndur peníngur og tapadur sonur, sem útsóad hefi þeirri gódu arfleifd-

inni. Eg skélf og titra, og hræd-
ist þinn dóm, eg óttast straff
syndanna, sem er eilífur daudi,
eg qvídi fyrir því ad deya, en eg
skammast mín þó ad lifa. Hvad
skal eg tilgjøra? eg flý til þín,
Drottinn minn og Gud minn!
ádur enn dómurinn yfir mig fell-
ur, því þú rekur aungvann frá
þér er til þín kémur: þú hefur
sett ydran þeim syndugu, og hef-
ur sendt þína þénara ad boda øll-
um sannydrandi syndanna fyrir-
géfníng, því áforma eg nú med
þinni nád, ad skriftast og játa
mínar syndir fyrir þínum þén-
ara. Drottinn Gud minn! upp-
vek mitt hjarta til sannrar ydr-
unar. Þú álítur einasta hjart-
ans þánka. Géf mér audmjúkt
hjarta í játníngunni, stadfasta
trú í áheyrslu heilagrar áminn-
íngar og aflausnar, adgjætid
hjarta í eptirtekt og ávextinum

framvegis. O Jesú! géf ad þessi dagur, sé eirn ydrunar dagur, og lífernisins betrunar dagur, já, einn heilagur dagur. Séu nú syndir mínar dreckar í hafsins djúpi þíns heilaga blóds, hverju eg og fullkomlega trúi. Svo géf eg og fel mig og mitt þetta áform þér, minn Jesú! til sáluhjálpleg-ra úrræda og æskilegustu endalyktar, í þínu nafni og nádar-trausti, Amen.

Lagid: Himneski Gud vor Herra.

O Gud! fyrir augsjón þína, aumur eg kém nú fram, harmandi hugraun mína, hladinn med, synd og vamm, uppgéngur mér um megn, játa eg þér misgjørd marga, mjøg í himininn, og arga, volads raust vel nú gégn.

2. Fer mér sem førnum saudi,' og fortøpudum son, útsóad hefi eg audi, og arfleifdar bestu von, stend því skjálfandi í stad, hrædist eg hefnd margfalda, horfandi á dóminn gjalda, æ hvør vill aumka þad?

3. Eg qvídi ofnjøg ad deya, ad lifa skammast mín, hvad skal þá hér um segja? Herra! eg flý til þín, Drottinn! miskunn mér, ádr enn dómur áfellur, og Eingils raustin gellur, útrek mig ei frá þér.

4. Öllum, sem ráð sitt rétta, ránglátum hér í heim, af þeim vilt oki létta, eg sæti fögnud þeim; áforma í náð því nú, fyrir kénnimanns fótum, fjötradur syndum ljótum, skriftast med trega og trú.

5. O Gud! uppvek mitt hjarta, ydrunar réttu til, andans lát audmýkt skarta, sem eg frambjóda vil, í játníng allri mín, eptirtekt og trú besta, á aflausn Prestsins festa, treystandi á trygdir þín.

6. Géf þessi gódi dagur, gángi til ydrunar, líka minn lífsins hagur, lagist til betrunar, svo ad mín synd gjørvøll, í hafsins djúp sé dreigin, dreyra Jesú afþvegin, því treystir ønd mín øll.

7. Fel eg allt þetta efni, og áform í hendur þér, svo á þig einann stefni, hvad umvardandi er mér, Herra minn hjálparfús! øll mín heilla úrrædi, og endalok þeirra bædi, annastu einn Jesús, Amen.

## Bæn eptir aflausnina.

Þackir gjöri eg þér, minn himneski hjartans Faðir! fyrir þá náð, er þú mér í nafni míns Lausnara Jesú Kristi hefir nú á þessari stuudu veitt, þar þú hefur leyst fjötur minna synda, og fágað mín synda-sár, huggað eg gladt mitt hjarta með heilagri aflausn og boðun syndanna fyrirgéfníngar, fyrir munn þíns þénara. Drottinn minn! géf þú mér þig hér fyrir að prísa, hjartanlega elska, og þér þjóna. Send mér náð þíns heilaga Anda, að eg halda kunni það eg lofaði í minni játníngu, mig við syndunum framvegis að sjá, og í endurnýung lífdaganna að gánga, svo eg ecki þverúðarsamlega syndirnar drýgi, og þó eg syndgi (því þar er einginn sem ei syndgi) þá géf mér af syndunum upp að

rísa, og að eg minnist, að óvið-
urgvæmilegt sé það, að afklæðast
þeim fagra réttlætisins skrúða
Jesú réttlætis, og íklæðast aptur
svívirðilegum syndanna flíkum.
Drottinn minn! stjórna mér í
dag og alla tíma til alls góðs, og
með þessum þánka vil eg nú í
dag byggja og meðtaka Drottins
qvöldmáltíð. Guð minn uppfylli
mína nauðþurft eptir sínum
dýrðar ríkdómi í Kristó Jesú,
Amen.

Lagið: Í Kristi Qvöldmáltíð.

Eg gjöri þakkir þér, þú minn Guð og Fað-
ir! fyrir náð mestu mér, mildur sem aug-
lýstir.

2. Vondsku leyst fjötur fann, frelstir mig
syndugann, huggun í hjartans rann, hér af
svo merkja kann.

3. Í aflausn mér allt gafst qvitt, íllsku
ránglætið mitt, fyrir þjóns talið þitt, því
er sál minni friðt.

4. Gefi mér náð þín nú, nýa von, elsku,

trú, svo þjóni sál þér sú, sem að friðkeyptir þú.

5. Ebli mig Andinn þinn, að eg vel heityrðin, haldi, sem Herra minn, hjet við skriftastólinn.

6. Sjái mig syndum við, saurgi ei lífernið, með ferskum synda sið, svoddan mitt áform stíð.

7. Og þó eg uppá ný, ílloerki netjist í, uppreisn mér unn af því, aptur nær til þín flý.

8. Géf mér eg gaumgjæfi, gløtunar efni sé, íllskunni afklæddri, aptur mig samteingi.

9. Saurgandi skrúða = skart, Skaparans aungann part, uppsett af elsku=art, ønd minni fagur bjart.

10. Í dag sem ár og síð, ebli mig náð þín blíð, það festi í þánka hlýð, þyggi svo Qvøldmáltíð.

11. Uppfyll þá naudsyn nú, náðugi Gud Jesú! framløgð í fastri trú, festist mér beiðni sú.

Bæn fyrir Sacramentis meðtekning.

O Herra Jesú Kristi! brunnur

allrar náðar, þú hugsvølun þeirra þyrstu, og læknarinn þeirra sjúku, hjartanleg var þín elska, þá þú úthelltir þínu heilaga blóði til fórnar og forlíkunar fyrir vorar syndir, og í minníng þinnar pínu innsettir það heilaga sacramentum þíns líkama og blóðs, sem er innsigli, og svo sem þín eigin handskrift þíns náðar sáttmála, þetta er sú lifandi ódauðleikans fæða sálarinnar, sú dýrmæta kræsíngin øllum hlutum sætari, það feita géstabodið; hér til lángar nú mína sál og húngrar, en (Guð náði) eg em breiskur, eg em óverdugur, eg get ei grátið mínar syndir, sem eg vildi og ætti, trúin er veik og ástundanin til þess góða døpur, hjartað er fullt með saurugar hugrenníngar; þetta játa eg, ó Drottinn! lát nú þinn krapt vera í mér breiskum máttugann. Lát þinn

heilaga Anda upplýsa hjarta mitt, og gjøra þad brennandi, svo eg medtaki nú þitt Sacramentum, ecki óverduglega mér til dóms áfellis, heldur verduglega mér til sáluhjalpar. Gjør mig einn sannan Jóhannem, sem med trúnni nú hvíli á þínu brjósti, og þadan útsjúgi sætleika þinnar huggunar, visdóms og styrkleika, ad eg verdi þinn eiginn limur. Sé þitt heilaga Sacramentum, Herra Jesú! mér eitt merki og teikn allrar blessunar og farsældar, lát mig af þessu merki ráda og dæma alla mína velferd. Fel eg mig nú, minn Herra Jesú! í blessudum bjargskorum þinna blódunda. Opna mér þær blódføgru nádar-dyr þinnar sídu, einkum í andláti mínu, svo eg mætti inngánga um port þeirrar himnesku Jerúsalem. Hér um bænheyr mig, minn Herra Jesú!

fyrir þíns heilaga náfns sakir, Amen.

Lagið: Jesús Kristur er vor Frelsari.

O minn Jesú! ebling báða, uppsprettu brunnur mestu náða, hugsvølun mæt ert þyrstum þú, þínum sársjúkum lækníng trú.

2. O! hvað varstu elskulegur, ønd minni og lífi mest sem vegur; nær þú fórnfærðist Føður þín, til forlíkunar syndunn mín.

3. Í þá minníng innsett léntir, altarisíns Sacramenti; og með því létst innsigladann, allann þinn náðar-sáttmálann.

4. Er það ódaudleikans fæða, øndu sem kann með lífi að græða, sett géstabod og kræsíng kjær, krapt er sætleikans af sér ljær.

5. Eg em breiskur, en þó lángar, ørþjáða mína sálu þángað, eitt veldur: síst kann svo sem ber, sárgráta mínar íllgjørðer.

6. Veik er trú sem verð að bjóða, vølt ástundan til þess góða, saurgað er hjartað syndum mest, sjá: eg þér allann játa brest.

7. Lát þinn krapt í breiskum byggja, blessaðann hjartað Andann þyggja, brennandi elsku birli hann þar, búst aðnum þeim til velferðar.

8. Ei svo taki eg ángur spennti, óverdug-

lega Sacramenti, edur til dóms áfellis mér, æ! mig verdugann til þess gjør.

9. Jóhannem lát mig hér þinn heita, holds þíns og blóds þá fer eg ad neyta, blífandi í trú á brjóstum þér, blessan útsjúgi þadan mér.

10. Þad skal teikn og mér eitt merki, á miskun þín og hjálpar verki, af því svo ráda meigi eg mest, mitt stand upp hédan farsælist.

11. Í blód-unda blídur þinna, bjargskorum lát mig hæli finna, set mér opnar dyr sídu þín, sálin er þar med forlíkt mín.

12. Í andláti einkum mínu, uppljúk mér himna-porti þínu, ó Jesú! bænheyr um þad mig; í þeim dýrdar sal finni eg þig, Amen.

---

## Bæn eptir medtekid Sacramentum.

Lof og heidur sé þér minn ljúfi Lausnari Jesú Kristi! fyrir þad, ad þú hefur nú látid mig verda hluttakara þíns sæta géstabods, í hverju þú saddir mína sál og

endurnærdir mitt hjarta. Nú er eg vordin þitt barn, bródir og Lærisveinn, gjöri mér nú einginn hér eptir ónád, hverki daudi, djöfull né helvíti, ei hold edur heimur, því eg ber minníng blód-benja míns Jesú í mínu hjarta. Í þessum styrkleika vil eg gánga, gégnum alla hörmúng, og sjálfann daudann, til fjallsins Drottins, til borgarskaps þeirra heilögu. Drottinn Jesú! géf mér hér eptir nú svo ad lifa, ad á mér sjáist þad fagra brúdar-skart þíns réttlætis, og þær fagurblómgudu rósir og liljur gódra dygda. Lát mig syndirnar framvegis fordast, sem höggorm. Geym mig frá öllu íllu og helga mig í þínum sannleika, þín ord eru sannleikur, svo eg um sídir mætti vera sem þú ert, med Födurnum, og þér, og med heilögum Anda, svo sem þid erud eitt, og þetta allt

sé nú og veri Amen, í Jesú nafni, Amen. Í nafni Födur og Sonar, og heilags Anda, Amen.

Lagid: Kristi vér allir þeckum þér.

Herra minn Jesú! heidra eg þig, med hjartans lofi mínu, hluttakara enn hélstu mig, ad holdi og blódi þínu, af hvörju sál mín sadníng fann, sem endurnærdi þurftugann, í synda ángri sínu.

2. Nú er eg barn og bródir þinn, brúdur þín eins ástkjæra, af því framgeng eg ó-qvídinn, ei kann mig framar hræra, helvíti, djøfull, hold né deyd, heimur ógnan á minni leid, af er sú øll torfæra.

3. Í mínu hjarta eg minníng ber, míns Jesú benja skara, í þessum styrkleik fram eg fer, feila mér ei né spara, ad fjalli Guds míns gjøra leid, gégnum hørmúng og sjálfan deyd, til Födur-landsins fara.

4. Géf æfi minnar allann part, upp hédan mætti eg sýna, ad blessad réttlætis brúdar-skart, breiddir á sálu mína; og liljur dygda lit-fagrar, ljótar og fordast syndirnar; fyrr enn mér dægur dvína.

5. Geim þú mig allri gløtun frá, géf ad eg sídan hljóti, heilagann bústad himnum á,

og hans um eilífd njóti, er þú med Födur ædstum skín, Anda heilögum líka þín; þá blæs ei margt á móti.



## Bæn þúngadrar Qvinnu.

Miskunsami, nádugi Gud og líknsami Fadir! þú sem í upphafi skapadir mann og qvinnu, og baudst þeim ad aukast og margfaldast. Eg þín ambátt, finn og formerki, ad eg er eptir þínum vilja ólétt ordin og ávaxtarsøm, hvad mér fyrst ørsøk gefur þitt almætti ad prísa, sem og þína gjædsku. Blessud og dásamleg eru øll þín verk vor á medal. En med því þú hefur vegna syndanna uppálagt barns-mædrunum sótt og harmqvæli, því bid eg þig, minn Drottinn! hvørs kraptur er í breiskum máttugur, þú sem engann lætur yfir megn freistast, vertu mér nú nádugur og nálægur, styrk mig,

stýr mér og stjórna, svo eg rati ecki í neinn háska, edur mitt fóst=ur. Vernda mig frá djoflinum og allri ólucku, slisum, føllum, heipt og reidi, og øllu skadlegu. Leys mig og greid í haggvæmann tíma, gef ad allt tilgángi skap=lega og náttúrlega um mín efni, og ad mitt fóstur, þá i heiminn fædist, mætti fyrir heilaga skírn, mínum Lausnara Jesú innplant=ast, og þitt óska=barn verda, verdi þinn blessadur vilji á mér. Upp=fyll mitt fóstur med heimugleg=um krapti heilags Anda. O Herra Jesú! þér offra eg nú og gef mig og minn lífs ávøxt, yfir=dreif hann med þínu blódi. O Drottinn! yfirgef mig ecki, og lát mig stødugа standa, hvørnin sem þú med mig høndlar. Gef allt mætti ské þínu nafni til dýrdar, en mér og mínum lífs=ávexti til farsældar, fyrir líf og sál, Amen.

Lagid: Mitt hjarta hvar til hryggist þú.

Hjartans' Fadirinn heilagi! hvør í upphafi skapadi, mann, qvinnu og bodi batst, mønnum heims ad margfaldast, mandat þetta stendur svo fast.

2. Hér nú formerki á høgum mín, heiløgum eptir vilja þín, ávaxtarsøm eg er, orsøk sú mjøg áminnir, ad almætti þitt prísist af mér.

3. O! hvad dásamleg øll þín verk, ó hversu máttug høndin sterk? en fyrst ad féckstu sagt, oss þad skyldi uppálagt, sem ádur høsdum syndina vakt.

4. Minn Gud! þinn láttu mátt í té, máttugur hvør í breyskum sé, ei freistar yfir megn, vertu mér því gjædsku gégn, gjør ei ofþúngt sorganna regn.

5. Um nád þín bædi og nálægd bid, naudspenntri sýndu, Drottinn! lid, háskanum frá mér hritt, allann voda og vanda stytt, vardveit enninn fóstrid mitt.

6. Greidi minn haginn gjædskan þín, géf allt skaplega um efni mín, falli, sem fara ber: fædt eins þegar fóstrid er, fridi og blessan nái hjá þér.

7. Fyrir skírn eins lát af-laugast, og Jesú mínum samteingjast, ósk-a-barn þad sé

þér, Anda Drottins ástgjafir, audsýn því, en vilja þinn mér.

8. Offradu þér þá eigu mín, yfirdreifdu med blódi þín, andar-heill ástúdlig, hjálpa eg standi hreystilig, hvørnin sem þú breytir vid mig.

9. Allt svo verdi til æru þér, en ad farsældum því og mér, sanni þad sála og líf, ad ockar sértu einka hlíf, eg á medan fulltrúa blíf.

---

## Andvarp jódsjúkrar Qvinnu.

O Herra Jesú! kom til mín og hjálpa mér nú, því hørmúngin og neydin hefur spennt mig. O Jesú minn Lausnari! leys mig og lát mína hrigd snúast í føgnud, og mín harmqvæli í hægd. O sæti Jesú! eg hrópa til þín, bænheyr þú mig og géf farsælann enda minnar eymdar. Gud minn Skapari! blessa mig, Jesú minn Frelsari! fridi mig, heilagur Andi! minn huggari, hressi mig.

**Í þér, Drottinn! er øll min von, þar fyrir láttu mér aldrei neitt til skada edur skammar verda, Amen.**

Lagid: Gud miskuni nú øllum oss.

O Herra Jesú! hjálpa mér, hørmúng og neyd mig spennir, ó Herra Jesú! hjá mér ver, hriggda því lífid kénnir, ó Jesú! ljúfi Lausnarinn, leys mig af púngri pín, ó Jesú! fell í føgnudin, fárlega sorgar-línu, hægd veit harmqvæli mínu.

2. O Jesú! hafdu á mér gát, anniſt mig nád þín ríka, ó Jesú! sælann enda lát, eymdina finna slíka. Blessi mig Fadir, Frelsari minn! fridar síns ei mér neitir: heilagur Andi! huggarinn, hressíngar best mér leiti, og gód afdrif von mín veiti.

---

# Þackargjørd sængur Qvinnu.

Hjartans lof og heidur sé þér, minn allra sætasti Drottinn! þar fyrir, ad þú hefur látid mig med gledi og føgnudi sjá minn lífs ávøxt, og eina réttskapada manneskju af mér í heiminn fædda, þú hefur sund-

urslitið mínn hrygðar=seck, og mín sundur=mørdu bein gladvær gjørt. Eg minnist nú ei minna harmqvæla fyrir fagnaðar=sakir. O Drottinn! Þitt lof skal jafnan vera í mínum munni. Eg vil tala um þínar dá=semdir, og framtelja það sem þú hefur gjørt við mína sál. Framvegis bið eg, minn Guð og Drottinn! svo sem þú hefur það góða við mig og mína barn=kynd uppbyrjað í skøpuninni, og heilagri vatns=skírn, sem er endurskøpun kristinna manna, svo gef mér aptur styrk og bresting, að eg kunni þér í þínu húsi að þjóna, og míns embættis og hússtjórnar erfiðis að gjæta í þínum ótta. Gef þú og svo þessari minni barn=kynd, að það mætti þinnar og þinna heilögu Eingla verndar njóta í vøku og svefni. Varðveit það fyrir djøflinum, óhreinum øndum, og allri ólucku. Þú svefnlausi hyrð=irinn, vak þú yfir því, veit því einninu værð og spekt, vøxt og þroska, vit og skyn, að það, svo leingi það lifir, mætti aukast og þróast í þinni kynníngu, og øllu góðu, svo það um síðir með mér, mætti sjá þína góðsemd á landi lifandi manna, í eilífri dýrð eg sælu. Drottinn! heyr þú mína bæn, og lát mitt ákall koma til þín, Amen.

Lagid: Gjørvöll kristinin skal glediast nú.

Af hjartans grunni heidra eg þig, Herra! sem nád mér tédir, míns þar lífs ávøxt létstu mig, lifandi sjá med gledi, réttskaptri fæddan medur mynd, margt fleira gott þeirri barn-kynd, andlegt af alúd lédir.

2. Hrigdar minn slitid hefur seck, hrestir vid beinin mørdu; nær sem í fángid gledin géck, gleymast harmqvælin urdu; lof þitt skal Gud í munni mér, mikladar þínar dásemdir, fyrir fólkinu á jørdu.

3. Blídur framvegis bid eg þig, byrjad í skøpuninni, gott vid barn-kynd mína og mig, mest þó í vatns-skírninni, stadfest, svo hress í húsi þín, hús-stjórnar líka standi mín, heidur þinn heilbrygd inni.

4. Barn-kynd þessari legg þú lid, ljúfur í vøku og svefni, hvørskins ólucku hlíf þvl vid, holdsins blessandi efni; vøxt géf því, vit, sýn, værd og spekt, svo verdi Gudi og mønnum þeckt, líssins med lucku géfni.

6. Ummúra þad med Einglum þín, uppfræd í kynníng þinni, því meiri þroska í þessu sýn, sem þróast ad lífs æfinni; svo ad þér lokssins lendi hjá, og lambsins brúdkaup fái ad sjá, um aldir í eilífdinni, Amen.



# Huggunar Bæn þeirrar Qvinnu, sem fædir sitt barn andvana.

Miskuna þú mér, minn Gud! eptir þinni miskunsemi, og eptir mikilleik miskunsemda þinna, afmá þú mitt ránglæti. O Drottinn! med því þú hefur nú reynt mig med þessu mótlæti, ad þú létst mig ei mitt afqvæmi med lífi siá, þá géf mér støduga þolinmædi, þessum þínum vilja ad taka, þinn vilji vard, en ecki minn, Drottinn minn! vardveit mitt hjarta frá allri efasemd um sáluhjálp minnar barn-kyndar, géf mér stadfasta trú til þinnar heimuglegrar sem opinberlegrar nádar-verkunar. Æ Drottinn! eg trúi, en auk mína trú, og hjálpa minni vantrú. Þú hefur sagt: leifid børnunum til mín ad koma, þad var þitt handa-verk, þad var þér, í mínu lífi innilukt, géfid. Því trúi eg, minn Herra Jesú! ad þú hafir þad med þínu blódi yfirdreift, og med heimuglegum krapti þíns heilaga Anda upplýst, Drottinn! gled mitt hjarta og mín bein, sem þú hefur sundurmarid, þú gafst, þú burttókst: sé þitt nafn blessad. Unn mér, minn sæti Jesú! ad meiga þetta mitt barn med lífi, gledi og dýrd siá um

sídir í himnaríki. Eg bid og segi: Drottinn minn! verdi þinn vilji svo á jørdu sem á himni. Og eg aptur bid: eigi leid þú oss í freistni. Og í þridja sinn: heldur frelsa oss frá illu, fyrir Jesúm Kristum vorn Drottinn og Herra, Amen.

Lagid: Settu, mín sál! í þánka þér.

Miskuna Drottinn minn Gud! mér, miskunsemd eptir þinni, sem allt ránglætid afmáir, af nádar gódsemdinni, þú hefur reynt mig mótgáng med, mitt létstu fædast afqvæmid, leidt frá lífs hræríngunni.

2. Þó géfdu þolinmædi mér, minn þínum teingdu vilja, hann vard, sem hlýddi, Herra þér, hinn má eg fólgin dilja; affníd mitt gjørvallt efa-var, um velferd minnar barn-kyndar, en orsøk lát allvel skilja.

3. Í athugun mér ebldu trú, á nádar verkum þínum, æ minni veiki vidhjálp þú, og vorkénn breiskleik mínum, børnin fyrr til þín bodadir, barn var og líka géfid þér, mitt þetta í módur-leynum.

4. Því trúi eg, Herra! hafir þad, med helgu þínu blódi, yfirdreift, skírt og aflaugad, uppruna syndar módi, hjartad og bein lát heilbrygd gjørd, Herra! sem voru sundurmørd, í fengnu vauna flódi.

5. Þú bittir og í burtu tókst, blessad sé nafn þitt sæta, þú grættir bædi og gledi jókst, grædðir og vánnst uppræta; géf mér barnid, minn Gud! ad siá, gladvært í dýrd þér sjálfum hjá, mig virdst þar med því kjæta.

9. Eg bid ad verdi eins á jord, og í hædum þinn vilji, ønnur er bæn enn aptur gjørd, oss nád þín freistni dylji, þridja: frels øllu illu frá, æ veit þad, Drottinn! himnum á, trúar þó skraf nú skilji, Amen.



## Bæn freistadrar og sturladrar persónu.

Avi Drottinn! miskuna mér aumri mannesskju, og lít til mín þínum nádar-augum, því vøtnin gánga inn ad minni sálu. Mínar syndir eru uppgéngnar yfir mitt høfud, djøfullinn skélfir mig, helvítis ógn er fyrir mér, daudinn ofbýdur mér, syndirnar særa mig, og eldur þinnar reidi sýnist mér upptendradur. Eg skélf og titra, já, mér sýnist í þessum freistíngum sem þín miskun hafi enda tekid, og þín reidi vilji mig ældúngis uppeta, eg vildi gjarnan daudur vera, en eg qvídi þó fyrir ad deya. Avi! hvad skal eg til gjøra? øll mannleg ráð og

hjálp er úti, hvørt skal eg flýa? til þín, Drottinn Jesú! sem freistadur varst, og sigradir freistíngarnar; til þinna fóta skríd eg, sem ein hund-tík til síns herra, flýttu þér, Drottinn! og frelsa sálu mína, fyrir þinnar miskunar sakir, lát mig ecki ørvinglast í mínum syndum; tak þessa freistíng frá mér, géf mér breiskum þinn máttugann krapt ad standa og strída. Réttu ad mér þína hønd sem Petró, þá hann ætladi ad søckva í vatninu; útslockt þú elds-bál freistínganna, úr ofni míns hjarta, og lát svølunar daggar-blæ þíns heilaga Anda svala hjarta mínu, géf freistíngunni þann enda, ad eg fái vel stadist. Lát þitt heilaga hjarta-blód hressa mitt hjarta, géf mér ad strída gott stríd, svo eg í þér, þú djøfulsins og daudans sigrari, sigurinn ødlast megi, Amen.

Lagid: Jesús sem ad oss frelsadi.

Æví, Drottinn! miskuna mér, manneskju aumri þinni, og lít til mín af hædum hér, huggunar augsýninni, freistínga votnin feikileg, fast ad sálunni þreyngja, syndanna byrdin sama veg, sárt vill høfudid streingja.

2. Djøfull mig skélfir, daudinn slær, dagslegu med ofbodi, sár-ógn helvítis setst mér

nær, syndanna meidir reidi, ofau á þetta eldur þinn, upptendradur í brædi, audsýnir mér þann ávørt sinn, eg skélf og titra bædi.

3. Freisting mér sýnir þessi þad, þin miskun sé í eydi, og mig vilji í annann stad, uppeta svo þín reidi, kýs eg því daudans kaleik mér, qvídi eg þó vid ad deya, Aví! hvert skal eg horfa hér? hvad skal eg gjøra og segja?

4. Mannleg hjálp øll fyrst úti er, eg skynja rádid besta, slýa til hans og slíta sér, freistni-sem þoldi mesta, yfirvinnandi allt þad strid, ertu þad, Jesú gódi! ad þínum fótum því eg skrid, þinnar í nádar flódi.

5. Sem hund-tík til síns herra sjer, horsi eg á miskun þína, far því af stad og slíttu þér, frelsadu sálu mína, ørvinglun lát mig ecki fá, í mínum synda vanda, tak mér heldur þá freisting frá, frískur svo mætti eg standa.

6. Vit þínum krapti beyskri ønd, barist ad farsæl géti, rétt mér svo þína hjálpar hønd, hálfsocknum eins og Petri, útsløcktu hjartans ofni úr, eldsbálid freistinganna, Drottinn! þíns anda daggar-skúr, dreifist mér géds um ranna.

7. Freisting géf enda fái þann, farsæll eg stadist gjæti, hjarta blód þitt míns hjarta rann, hreßi og endurbæti; géfdu medan eg

gisti hér, gott strídid jafnan heji, svo ad eg loks í sjálfum þér, sigurinn ødlast megi.



## Trúarstyrking þess sturlada.

Vikid í burt, um hæl snúist og til skammar verdid mínir óvinir, burt þú djøfull, daudi og helvíti, med yckar ógnan og áhlaupi, því Drottinn hefur heyrt mína bæn, Drottinn er mér til hægri handar, hann er mitt hjartans traust og hlutskipti; eg hræðist nú framar enga óluckn, því eg er þar viss uppá, ad hverki hæd né dýpt, edur nockur hlutur, og eingin sképna fær skilid mig vid Guds kjærleika í Kristó Jesú. Daudi, hvar er þinn sigur? helvíti, hvar er þinn broddur? lof sé Gudi sem mér hefur sigurinn géfid fyrir Jesúm Kristum, Amen.

Lagid: Heldrum vér Gud af hug og sál.

Víkid í burt, vendid frá mér, verdid til skammar óvinir; burt þú djøfull og daudi med, dapurt og rími helvítid, ei framar ýtid ógn til mín, áhlaupi, slægd né véla-pín, Gud því bænheyrir børnin sín.

2. Drottinn er mér vid hægri hlid, hann er mitt trúar atkérid, adstod, hlutskipti og

hjartans traust, hræðist því sál mín vafalaust, aungva ólucku og aunga neyð, af því hún vonar setur leið, til liðs Drottins í lífi og deyð.

3. Hæð, dýpt, sképna né hlutirnir, himins og jarðar, víss eg er, ei kunna að skilja ockur nú, allra kjærasti minn Jesú! helvítið brodd ei hvessa kann, hvørgi neinn sigur dauðinn fann, Guði sé lof sem gaf mér hann, Amen.



## Bæn þess sem mist hefur sinn ást=vin.

Miskunna þú mér, þú miskunsamasti Guð! þú nauðhjálparinn nauðstaddra, og veit mér hjálp og aðstoð, því eg em einmana og fáráður, og er orðin sem Náttugla í eyði=húsum, og sem einmana fugl á hús=þekjum. Drottinn! þú burttókst minn ást=vin, hann var að sönnu þinn, þú gafst hann, þú burttókst hann, sé þitt nafn blessað. Ó Jesú! þú sæti líknar=brunnur, svala þú mínu sorgfullu hjarta, og still mína ángist. Lít til mín þeim sömu náðar=augum, sem þú leitst til þinnar blessuðu móður undir krossinum grátandi og send mér aðstoð, já,

vertu sjálfur mér og mínum það besta forsvar í allri neyð. Hugga mig með þeim orðum er þú huggaðir þ.: sorgfullu eckju til Naim. Géf mér þín náðar-fyrirheit, sem þínum Lærisveinum, að mín hrygð skuli snúast í fögnuð. Sundurslit minn hrygðar-seck og gleð mín sundurmörðu bein. Géf mér heilaga þolinmæði á þessum mínum tára sáð-tíma, að eg með glaðværri von bíði uppskéru-tíma eilífs fagnaðar, að eg meigi þá sjá og líta mína undanfarna ástvini, og með þeim lofa þig og dýrka um eilífar óendanlegar aldir alda, Amen.

Lagið: O kristin sál! umhugsa fyrst.

Mér, Drottinn! miskunsamur vert, mæddra sem nauðhjálparinn ert, hreßs mig einmana í hörmum mín, hér ligg eg fáráð sképna þín.

2. Eins sem nátt-ugla orðin er, í eyði-bælum skýlir sér, og á hús-þekjum uppi þar, einmana fuglinn staddur var.

3. Einn í burttókstu ást-vin minn, eiginbóm, Guð! að sonnu þinn, hann gafst, og ryckt-ir honum frá, heiðrast þitt blessað nafnið á.

4. O Jesú! lífsins leiðtogi, líknar-brunnur í neyðinni, svala míns hjarta sorgar-pín, sefa og still þú ángist mín.

5. Alít mig nádar-augum þín, eins og fyrr sællrar módur-þín, krofs undir gálga grát-andi, géf mér svo styrk af hædinni.

6. Vertu, Gud! mér og mínum þá, mesta forsvar nær liggur á, æ breyt í huggun eins vid mig, og eckju Naims tjádir þig.

7. Sem Læri-sveinum, svo mér veit, sæt-ust þín nádar-fyrirheit, ad hrygd í fögnud hverfi minn, hjálpi því máli kraptur þinn.

8. Stíttu, Gud! hrygdar-seckin minn, svo gled og bein mín daud-marin, þessi sád-timin tárvadi, temji mér heilagt þolgædi.

9. Ad eg í von og ást á þér, uppskéru tímans bídi hér, eilífrar gledi, og aptur þá, ástvini mína fái ad sjá.

10. Og med þeim lofa um aldir þig, ást-ar-þrenníngin guddómlig, anda mér kraptur unni þinn, andlegi sálar-brúdguminn.

---

## Sjófarandi manns Bæn.

Almáttugi miskunsami og nádarríki Gud! sem stjórnar og stírir öllum hlutum, þú sem ert Herra himins og jardar, vatnanna og sjáfarins, þú hefur ad sönnu í upphafi allar sképnur undir mannsins fætur lagt, en vegna syndarinnar hljótum vér med mædu og erf-

idi vorrar næríngar ad leita. Og med því eg áforma nú í þínu trausti eina hættusama sjó-ferd ad byrja, eptir þínu bodi og ordi; því bid eg þig, minn Drottinn! um náð og hjálp, hlífd og blessan, á þessari minni hættusömu reisu. Vertu oss nálægur, og lát oss sem brúkum vora høndlan á stór-vøtnunum, sjá og reina þínar dásemdir. Bevara vort líf og sál, skip og góz frá øllum háska. O Herra Jesú! still þú bædi storm og sjó, svo sem þú gjørdir þá þú varst á skipi med þínum Lærisveinum. Bevara oss fyrir brimi og blind-skérjum, skadsømum fiskum og sjó-reifurum. Géf oss byrd, hægd og logn. Blessa þú einninn vort erfidi og veidarfæri, sem Petri. Géf oss góda høfn og lendíng, þá viljum vér til lands komnir, af hjarta sýngja og segja: þøckum Drottni, sem dásamlega hluti hefur vid oss gjørt, því hans miskunsémi varir eilíflega. Þér befølum vér oss nú med sálu og lífi, skipi, góz og veidarfærum, til allrar umsjónar; Drottinn! heyr þú vora bæn, og lát vort ákall koma til þín, Amen.

Lagid: Ad ydka gott med æru.

O Gud Zebaoth ædsti! allra hluta stjórnarinn, himins-rós, jardar hærsti, Herra og

maktar=kóngurinn, alla kind ofs þú géfur, edla=lind, skapt sem hefur, en mannsins synd, mædu ad ná þeim krefur.

2. Í Drottins ásetótta, adkrefjandi nauðsyn mín, eina sjó=ferd áhætta, eptir nádar bodi þín, því bid eg, þú mig blessir, þennann veg, enn þó hvessi, ad farsælleg, førin endist þessi.

3. Á reisum vatna ríkar, reyna þínar dásemdir, unn ofs og einninn líka, en nálægur vertu hér, sál og líf, samt bevara, sértu hlíf, báti og skara, illt burtdríf, Engla fylgd ei spara.

4. Storm og sjó still í skordum, sterka farar heillin mín, Gud! svo sem gjørdir fordum, gódur læríssveinum þín, blind=skérjum bátnum forda, og ban=fiskum, logn vid skorda, reifurum, bæg med abli orda.

5. Verkin og veidarfæri, vor (sem Peturs) blessa þú, í høfn ef hjálp þín bæri, hana skyldum prísa af trú, og þakka þér, gjædskan góda, gott sem lér, verndin þjóda, landfastir, lofgjørd þá frambjóda.

6. Sál og líf, Son Guds kjæri! sámt líssins útréttingar, góz, skip og gjørvollfæri, géfum þér til umsjónar, bænheyr þú,

beidni mína, byrg ei nú, miskun þína, ó Jesú! á oss lát það hrína.

## Ferðamanna Bæn.

Í þínu blessaða nafni, Drottinn minn Lausnari! áforma eg mína reisu; ó þú farsælasti förunautur og leiðtogi! kom þú til mín, og leið mig til og frá með allri farsæld, svo sem þú gjörðir Jacob forföður, og þeim yngra Tobiæ, hvörjum þínir heilagir Englar fylgdu og leið vísuðu. Bevara mig, Drottinn! bæði á sálu og lífi frá óvæðráttu og lopt-eldíngum, reiðarþrumum og öllum skaðsömum lopts og jarðar öndum, frá vatns-straumi og voveiflegum skaða, villudýrum og vondum reisurum, frá allri ólucku og slisum, einkum fyrir Djöfulsins áfalli og svikum. Lát þína heilaga Engla leiða mig og alla þá í minni ferð eru, og bevara í vöku og svefni, á hestbaki og fæti, géf mér farsæld og góða framqvæmd míns erindis, uppvek góða menn mér til greiða og góðgjörða, þá er eg hitta kann, blessa mitt eptirlátið hús og heimili, svo eg með gleði meigi það aptur sjá heimkomandi, bevara

mig frá vondum selskap, bráðum dauða og allri qvøl. O Drottinn! vertu með oss øllum á vegferdar-reisu vors lífs, og unn oss með gledi að ná voru rétta heimili og føðurlandi farsælu á himnum, þú sem lifir og ríkir einn og þrennur almáttugur Guð að eilífu, Amen.

Lagið: Þá barnið Jesús í Bethlehem.

Farsælasti fylgjarinn, og førunautur góði! nú til reisu nandsynin, í náðar þinnar flóði, kémur mér; því kom til mín, kríng mig breiðist verndan þín, með Engla fylgð ágjætri, þeirri er Jacob þú réðst tjá, þar með úngum Tobía, af guðdóms miskun mætri.

2. Blíður Guð mig bevari, bæði á sálu og lífi, við óvedráttu, áhlaupi, og øllum voða hlífi, eldíng, þrumum, allri neyð, óluckum, bráðum deyð, og øndum íllgjørðanna, villu-dýrum, vatna-straum, voveiflegum skaða glaum, og ráni reifaranna.

3. Einkum Djøfuls áfalli, øllu frá mér buga, lidsemd Engla á leiðinni, lát nú þinna duga, í vøku og svefni, á fæti og ferð, farsæl reisa verði gérð, góða menn til greiða, uppvektu mér, elskan trú, eptirlátið hús og bú, blessan virðstu ábreiða.

4. Aptur svo mér auðuist það, allt með gleði að finna, vondra selskap vík úr stað, frá veigi fóta minna. O Drottinn! vertú øllum oss, allra líssins reisu huoss, bjørg og lið leggjandi, lokssins géf að lendum vér, lof færandi sjálfum þér, á føstu føður-landi.

## Sjúks Manns Bæn.

Drottinn Guð! miskuna mér, og straffa mig ecki í þinni reiði. O Jesú! Lausnari þeirra sjúku, lækna mig, því eg em veikur, lækna mína sál sem mjøg er hrelld; því þar er einginn friður í mínum beinum; hjartað skélfur, líkaminn þjáist. Vægðu mér, Drottinn! snú þú aptur og frelsa mína sál. Mínar syndir þér særa mig, segðu því svo til mín, minn Drottinn! vertu hughraustur Sonur, þínar syndir eru þér fyrirgéfnar. Eg bið, styð og aðvarpa, líkna þú mér, ó Jesú minn Lausnari! réttu að mér þína hjálpar-hønd, því hér er einginn annar sem hjálpar. Géf mér þolinmæði að þreya þar til þín stund er komin, þennann vínbrest að bæta. Varðveit mig fyrir øllum Djøfulsins freistingum, missýningum, tœnuleysi, og allri óþolinmæði;

kinaðu mína eymd; gleð mína ángraða sál. Allrahelzt géf mér stöðuga trú, allt í dauðann, og þegar eg skal héðan fara, þá leið mig gégnum dauðans ytstu myrkur, til þess eilífa dýrðar ljóss í himnaríki, Amen.

Lagið: Allt eins og blómstrið eina.

Lýsi læknarinn synda! lækna þann veikur er, um sár eg hefi að binda, aflegg því plástur mér, sálin býr hreld í hjarta, hjartað skjálfandi mjög, líkamans lúðir parta, lest beinin óróleg.

2. Vægðu mér, Drottinn dýri! Drottinn Guð aptur snú, refsíng síst reiði stýri, reiðast þó takir nú, drýgðar mig syndir særa, seig því til mín í náð, ber þig vel barn mitt kjæra, brot eru þín afmáð.

3. Eg styn, andvarpa og veina, ó Jesú! líkna mér, rétt út hjálpar hönd þína, hjálp önnur gjörvöll þver, géf þolinmæði mæta, meðan þín stund er ei, þennann vín-brest að bæta, best undir það eg dey.

4. Djöfuls mér fári forða, freistni og misssýníng, geym mig til gjörða og orða, gjörvallann allt um kríng, með rænu og þoli að þreya, þar til stund eymda dvín, stríðið vel styrk að heya, sturlaða sálu mín.

5. Orku mér trúar unntu, øllu framar í heim, daudvona minnast munntu, mín best í efnum þeim, undan þá gack hinn gódi, gégnum þann myrkva hyl, svo fái eg í þínu flódi, farsældar komast til.

# Andvarp kristinnar manneskju undir andlátid.

O minn allra sætasti Jesú! kom þú nú til mín, og vertu mér nádugur, opna þú minni sálu dyrnar til eilífs lífs, Amen.

O Jesú! lát þinn sárheita blód-sveita, er þú útheltir í Grasgardinum, míkja nú minn sárkalda dauda-sveita. O Herra Jesú! medtak þú nú mína aumu sál, hverja eg fel í þínar hendur, Amen.

Lagid: Þá Israel fór af Egyptó.

Minn kjærasti Jesú! kom til mín, qveinandi sálin bidur þín, nádugur nálægd flýttu, opna henni dyrnar eilífs lífs, afleystri naudum holdlegs kífs, Amen hér undir settu; géf þinn blessadur blód-sveiti, brostinn af þér í Grasgardi, sárheitur mýki sárkaldann, sveita, mér daudinn verka kann, æ med-

tak nú þá aumu önd, eg sem, Guð! fel í þína hönd, Hallelújah! Hallelújah!



## Niðurlag allra áðurskrifaðra Bæna.

Þessa mína auðmjúka Bæn, fyrir Guð í himininn framsetta, bið eg þig, minn Herra Jesú! framm að bera, og hana þacknæmilega og áheyrilega gjöra, svo hún í þínu nafni Já og Amen verði.

Lagið: Sálma-bók svo skal enda.

Bæna fórn mín framsetta, fyrir Guð himnaránns, eg bið þig upp að rétta, ó Jesú minn! til hans, af hjarta auðmjúk mínu, áheyrileg að sé, og að í nafni þínu, Amen sitt tilsetji, Amen.



# Sálmur
af
# Sjø Ordunum Kristí á krossinum.

Má syngja sérhvert Vers á hverjum degi vikunnar, qvøld og morgna.

Gjørdur af

B. M. S. Beck.

## Sunnúdagur.

Lagid: Heidrum vér Gud af hug og sál:

Þú sem badst fridar fyrir oss, Fødurinn, þegar héckst á kross, þig bidjum vér um nád á ný, í nafni þínu segjum því:

Framferdid illa fær í lag, farsæl gjørvallann lífsins hag. Og géf oss øllum gódann dag.

Forlát, Drottinn! framferdid ljótt, fadma oss ad þér, svo verdi rótt. Og géf oss øllum góda nótt.

## Mánudagur.

Móður þinni sem forsvar féckst, sölur þegar á krossi héckst, láttu mig einninn forsvar fá, Frelsari minn! þér sjálfum hjá.

Minn Gud! þad sýn á mínum hag, mitt blessa ráð og vinnulag. Og géf oss øllum góðann dag.

Byrtu þad forsvar hátt og hljótt, hjúkradu mér svo verdi rótt. Og géf oss øllum góda nótt.

---

## Pridjudagur.

Ræníngiun bád, og fyrir þad féck, frá myrkrunum í ljósid géck, Herra! eg eins af hjarta kýs, hjá þér ad vera í Paradís.

Láttu þad mínum heppnast hag, ad hljóti eg svoddan gæfu-plag. Og géf oss øllum góðann dag.

Lífsins og dauda mid er mjótt, mínum vidhaldtu sálar-þrótt. Og géf oss øllum góda nótt.

---

## Midvikudagur.

Yfirgéfinn qvad Son Guds sig, svoddan af

hjarta gleður mig, yfirgéfa mig ecki kann, yfirgéfinn fyrst gjørdist hann.

Yfirgéfðu nú ei minn hag, áformið, verk né bænalag. Géf mér þar uppá góðann dag.

Yfirgéfa mig aldrei mátt, ó Jesú minn! á nockurn hátt. Géf mér þar uppá góða nátt.

## Fimtudagur.

Jesús á krossi þyrsti þig, það léttstú, Jesús! hressa mig, þorstinn þinn verki þetta mér, þyrsti mig jafnan eptir þér.

Svala hér mínum sálar hag, síðan mig uppi hæðir drag. Og géf oss øllum góðann dag.

Svaladu minni sálu skjótt, sofa láttu mig vært og rótt. Og géf oss øllum góða nótt.

## Føstudagur.

Fullkomnað sagðir fordum þú, fullkomnað

segdu aptur nú, fullkomnad hrópa fyrst eg bid, fullkomnun þá eg held mig vid.

Fullkomna nú med sama slag, sinnelsid mitt og verka=lag. Og géf oss øllum gódann dag.

Fullkomnad játa, Fadir! brátt, fullkomna þræls=um vægd og sátt. Og géf oss øllum góda nátt.

---

## Laugardagur.

Frelsari minn! sem Fødurnum, fólst þína sál á krossinum, mig fel þú líka honum í hønd, heimilid gjørvallt, líf og ønd.

Allt mitt tilstand og allann hag, annastu þad med besta slag. Og géf oss øllum gódann dag.

Umkríng oss þinni Engla gnótt, uppá þad sofum vært og rótt. Og géf oss øllum góda nótt.

---



Viku = saungur

*D. JOHANNIS OLEARII,*

úr þýdsku máli útlagdur af

Sál. *Mag.* Steini Jónssyni,

Biskupi Hóla = Stiftis.

## Sálmur á Sunnudøgum.

Lagid: Allfagurt ljós oss byrtist brátt.

Nýtt lof sé Gudi nú í dag, ný vika gledur enn vorn hag, nýtt í dag skóp Gud lýdum ljós, líf nýtt gaf Jesús øllum oss.

2. Á þessum degi þad eg finn, þú reist af dauda, Jesú minn! réttlætid hófst en hestir kíf, huggun mér gafst og eilíft líf.

3. O þ nnann sæla Sunnudag! svo mikid gingur oss í hag, Jesú! þín mildin gjædsku-gjørn, gjørdi oss Drottins ósta-børn.

4. Lát," minn Gud! ord þín ástúdlig, innleidast í himna sælu mig, lát mig í helgun lifa hér, lof eilíft sídar færa þér.

5. Sé þér, Gud Fadir! súngin dýrd, sé þér, minn Jesú! lofgjørd skírd, sé þér, huggarinn heilagi! heidur med vegsemd eilífri.

## Sálmur á Mánudøgum.

Lagid: Ofan af himnum hér kom eg.

Sýng Drottni lofgjørd sála mín, sjá Mánudagsins ljós þér skín, himinfestíng á honum sköp, Herra þinn Gud, þitt traust og hóp.

2. Til himins upp hvad himneskt er, til himins leita réttkristnir, fallvallt er þad sem finnst á jørd, fast-eignin vor er himna dýrd.

3. O Jesú! gef þinn Anda mér, æ ámedan eg lifi hér, svo mín til himna hefjist ønd, haldi eg þér fast med trúar hønd.

4. Túnglsins byrta mjøg brygdul er, bregst nádar ljós þitt aldrei mér, heims þá

forgeingur hverfult prjál, á himnum gleð þú mína sál.

5. Sé þér, Guð Faðir! súngin dýrð, sé þér, minn Jesú! lofgjörð skírð, sé þér, huggarinn heilagi! heiður með vegsemd eilífri.



## Sálmur á Þriðjudøgum.

Lagið: Einn Guð Skapari allra sá.

Ljós Þriðjudagsins ljómar nú, lofuð sé, Guð! þín ást og trú, ó mín sál! þú ei þegja skallt, þjóni nú Drottni hjartað allt.

2. Horfi eg á handaverk þín, Herra Guð! sköpuð vegna mín, í dag er sjór og einnig jørð, af þér frjóssøm og blómleg gjørð.

3. Skoða, mín sál! hvað skepnurnar, við Skaparann eru hlýðugar, blómgaðist jørð, þá bauð hann það, boðum hans líka gjæt þú að.

4. O Jesú! hneig þú hjartað mitt, í helgun að stunda gèðið þitt, svo glæpanna aldrei gjørist þý, Guð minn blessaður! stjórna því.

5. Jesú minn Herra! þekti eg þig, þræl þinn trúann lát vera mig, þér vil eg alla þjónkan tjá, þá fæ eg launin himnum á.

6. Sé þér, Guð Faðir! súngin dýrð, sé þér, minn Jesú! lofgjörð skírð, sé þér, huggarinn heilagi! heiður með vegsemd eilífri.



## Sálmur á Miðvikudögum.

Lagið: Skaparinn stjarna Herra:

Guði sé dýrð, sem gjörði ljós, og gèfur enn nýa birtu oss, sól og túngl Drottinn dýrstur skóp, í dag með skínándi stjarna hóp.

2. Sól og túngl hefur sína tíð, sól réttlætisins fögur og blíð, aldrei forlætur öndu mín, eilíf miskunar birtan þín.

3. Nær augun leingur sól ei sjá, sól réttlætisins lýs mér þá, náðar-ljós þitt sem ljómar hér, til ljóss þess eilífa fylgi mér.

4. Sé þér, Gud Fadir! súngin dýrd, sé þér, minn Jesú! lofgjørd skírd, sé þér, huggarinn heilagi, heidur med vegsemd eilífri.

## Sálmur á Fimtudøgum.

Lagid: Haldt oss Gud vid þitt hreina ord.

Sýng med fagnadi, sála mín! sætt lof Gudi er miskun sín, yfir þig jafnan útbreidir, uppheldi og blessan veitir þér.

2. Fiska og fugla frjófgunin, fóstrar, mín sál! líkama þinn, eptir Guds bodi er þad skéd, og hans hid fimta dags verkid.

3. Hjartad mitt gledur, Herra minn! heilagasti nátt = verdur þinn, í dag sú máltíd innsett var, øndu minni til lífgunar.

4. Á þennann dag er uppstíginn, aptur til himna Jesús minn, Fødurland eilíft oss þar fann, á Guds hægra veg settist hann.

5. Hjartanu mínu af himna trón, hug=

svalar æ þín fyrirbón, þegar að andvarps
orðin mín, uppstíga, Jesú minn! til þín.

6. Dýrð þín, minn Jesú! eilíf er, eilífa
dýrð þú tilbjóst mér, eptir það stundleg eymd-
in dvín, upptaktu mig í dýrð til þín.

7. Sé þér, Guð Faðir! súngin dýrð, sé
þér, minn Jesú! lofgjörð skírð, sé þér hugg-
arinn heilagi! heiður með vegsemd eilífri.



## Sálmur á Föstudögum.

Lagið: Minnstu, ó maður! á minn deyð.

Fagna, mín sála! frelsi þín, frelsuð af synd
og dauðans pín, syndanna vegna Drottinn
dó, dauðinn hans lífið oss tilbjó.

2. Adam dauðann innleiddi fyrst, á þess-
um degi hann skapaðist, í dag Guðs Sonur
deyði á kross, dýrð eilífs lífs hann keypti oss.

3. O Jesú! fyrir þinn æðstann deyð, er
eg nú frjáls af hvörskyns neyð, hertogi lífs-
ins hlífð er mín, hvar er nú dauði maktin
þín?

4. Min sál! frelsi þér Guðs Son gaf, glæpanna þrældóm lát því af, ó minn Frelsari! unn þú mér, eilífs frelsis í dýrð hjá þér.

5. Sé þér, Guð Faðir! súngin dýrð, sé þér, minn Jesú! lofgjörð skírð, sé þér, huggarinn heilagi! heiður með vegsemd eilífri.



## Sálmur á Laugardøgum.

Lagið: Sannheilagt ljós samjøfn.

Hvíld er nú búin hjarta mín, hvíldist Drottinn af verkum sín, hvíld mín í Guði allein er, ó Drottinn! hvíldu þig í mér.

2. Í dag, minn ljúfi Lausnari, látinn hvíldist í grøfinni, er því hvíld minni øndu vís, upp í himneskri Paradís.

3. Eptir armæðu heimsins hér, hvíld eilífa géf, Drottinn! mér, lát mig í rósemd lifa þar, og ljóma himneskrar farsældar.

4. Endt er þá gjørvøll eymd og kíf, í eilífri hvíld eg með þér blíf, géf kristnum ró og huggun hér, himneska síðan dýrð hjá þér.

5. Sé þér, Guð Faðir! súngin dýrð, sé þér, minn Jesú! lofgjörð skírð, sé þér, huggarinn heilagi, heiður! með vegsemd eilífri.



Selst óinnbundið á Prentpappír 34 ß. r. S.



